# Evangelisk kristileg

# Sálma-bók,

til brúkunar í

## kirkjum og heima-húsum.

---

IX. Útgáfa.

Selst óinnbundin á prentp. 1 rbd. Silf.

---

Reykjavík.

Prentud á kostnad prentsmidjunnar af H. Helgasyni.

1847.

## Til adgætslu

vid

# Messu-gjørd.

Eptir ad samhringt er til messu, eiga prestar ad láta i kór-dyrum lesa á øllum messu-døgum þessa bæn og Fadir vor á eptir.

Drottinn! eg er innkominn i þetta þitt heilaga hús, ad heyra hvad þú, gud fadir, minn skapari! þú drottinn Jesú, minn frelsari! þú, verdugi heilagi andi, minn huggari! i þinu ordi vilt vid mig tala. Drottinn! opna þú svo med þinum heilaga anda, fyrir Jesú Krists skuld, mitt hjarta, ad eg kunni af prédikuninni læra, ad bera ángur fyrir minar

syndir, í lífi og dauda trúa á Jesúm, og daglega betra mig í dygdugu liferni og framferdi. Pad heyri og bænheyri gud, fyrir Jesúm Krist, amen!

**Fadir vor,** o. s. frv.

Strax ad þvi búnu byrjast saunguriun, og framhelst tvo fyrstu sálmana út. Þegar þeir eru á enda, snýr prestur sér ad fólkinu og tónar:

**Drottinn sé med ydur!**

Forsaungvari og fólkid ansar:

**Og med þinum anda!**

Prestur snýr sér aptur ad altari og tónar:

**Látum oss bidja:**

og sídan þá Collectu, sem i hvert skipti á vid, eptir handbókinni. Forsaungvari og fólkid ansar: amen!

Þá snýr prestur sér fram ad fólkinu og tónar: **Pistilinn skrifadi Postulinn** (sá sem handbókin sýnir). En sé Lectian annarstadar ad finna, enn í pistlum postulanna, hagar prestur sér þar eptir og segir: **þessi heilaga Lectía** stendur skrifud í N. N. spádómsbók, (eda) postulanna gjørningum (eda) opinb. bókinni, eda

eptir sem vel hlýdir þessu ad umbreyta: tónar hann svo **pistilinn** skírt og seint.

Eptir pistilinn skal sýngja þann sálm, sem prestur hefur hér til valid i bókinni, en ad honum búnum snýr prestur sér fram og tónar:

**Drottinn sé med ydur!**

Forsaungvari og fólkid ansar:

**Og med þínum anda!**

Prestur tónar svo:

**Eptirfylgjandi heilagt gudspjall skrifadi gudspjallamadurinn N. N.**

Forsaungvari og fólkid ansar:

**Gudi sé lof og dýrd fyrir sinn gledilegan bodskap!**

Sidan tónar prestur **gudspjallid** seint og greinilega til enda. Ad því búnu er súnginn sá sálmur, sem prestur hefur valid til og fundid ad hlýda uppá sitt rædu efni; vid hans lok stigur prestur i stól og heldur þar rædu sina. Á hátidum er súngid þad vers, eda sálmur, ádur enn gudspjall er lesid i prédikunar stól, sem prestur hefur þar til valid samkvæmt efni hans og timunum, en ella ekkért.

Eptir prédikun sýngist þad vers, eda sá sálmur, er prestur hefur þar-til ætlad; en eigi **børn ad skíra**, eda **konfirmera**, byrjast þá strax, sem prestur stigur úr stól, þeir sálmar, eda þau vers, sem þar eiga vid eptir þessari Sálma-bók, og fyrirmælum prests, og aflýkur hann þar eptir sérhverju af þessu. Séu nokkrir til **altaris** þann dag, er súngid versid No. 212, sídan snýr prestur sér fram og les eptirfylgjandi áminningu til þeirra, er gánga til **altaris**.

Sakir þess, mínir kærustu Krists vinir! ad þér réttilega og maklega mættud medtaka þad háleita sakrament kvøldmáltídar vors drottins, þá ber ydur einkum þessa tvo hluti ad vita og skilja, sem er: hvad þér skulud trúa og gjøra; þvi þessum ordum, sem Kristur sagdi: **þad er minn líkami, sem fyrir ydur verdur géfinn**, og **þad er mitt blód, sem fyrir ydur úthellist til fyrirgéfningar syndanna**, skulud þér fullkomlega trúa, ad svo i sannleika er; þvi Jesús Kristur er þar sannarlega sjálfur hjá, med sínum líkama og blódi i sakramentinu, eptir ordanna hljódun. Þarnæst skulud

þér og svo trúa Krists ordum, til syndanna fyrirgéfningar, þad: ad Jesús Kristur skeinkti ydur sinn líkama og blód, til innsiglis og stadfestingar uppá allra ydar synda fyrirgéfningu. Ad sídustu skulud þér fyllilega gjøra Krists skipun, þar hann svo býdur ydur, segjandi: **medtakid og etid!** somuleidis: **drekkid hér af allir!** og: **gjørid þad í mína minningu!** því hann hefur géfid oss sinn líkama og blód ad eta og drekka til fyrirgéfningar syndanna, og þar med ad minnast hans heilaga dauda og pínu. Þar fyrir, þegar þér svo trúid þessum Krists ordum, og breytid eptir hans skipun, þá erud þér réttprófadir og reyndir, sem postulinn Páll segir, og megid svo maklega eta Krists líkama og drekka hans blód, til fyrirgéfningar syndanna. Þar til géfi ydur gud himneskur fadir sins heilaga anda nád, fyrir þann sama Jesúm Krist vorn herra; og þarum viljum vér allir gud bidja af hjarta og segja:

Þegar sú áminning er útlesin, snýr prestur sér að altarinu og tónar skírt og seint eptirfylgjandi bæn:

**Látum oss biðja:**

**Faðir vor! þú, sem ert á himnum. Helgist þitt nafn. Tilkomi þitt ríki. Verði þinn vilji, svo á jörðu sem á himni. Gef oss í dag vort daglegt brauð. Og fyrirgef oss vorar skuldir, svo sem vér og fyrirgefum vorum skuldunautum. Og eigi leið þú oss í freistni. Heldur frelsa oss frá illu.**

Forsaungvari og fólkið ansar: amen!

Svo tekur prestur pátínuna með brauði sér í hönd, á meðan hann tónar eptirfylgjandi innsetningar-orð:

**Vor herra Jesús Kristur, á þeirri nátt, sem hann svikinn var, tók hann brauðið, gjörði þakkir og braut það og gaf sínum lærisveinum og sagði: takið og etið! það**

**er minn líkami, sem fyrir ydur verdur géfinn. Gjörid þad í mína minningu.**

Því næst tekur prestur kaleikinn sér í hönd, og tónar hin testamentis ordin, segjandi:

**Sömuleidis eptir kvöldmáltídina tók hann kaleikinn, gjördi þakkir, gaf þeim hann og sagdi: drekkid allir hér af! þad er kaleikur hins nýja testamentis í mínu blódi, sem fyrir ydur úthellist, til fyrirgéfningar syndanna. Gjörid þetta, svo opt, sem þér þad drekkid, í mína minningu.**

Séu fleiri til altaris í einu, enn ad kaleikurinn ásteinktur endist þeim, leggur hann höndina, á medan hann þetta tónar, til skiptis á kaleikinn, og á þær vínflöskur, sem á altarinu standa, ellegar les sömu ord lágt upp aptur í hvert sinn braud eda vín þrýtur á pátínu eda kaleik, med sömu adferd.

Á medan prestur þar eptir útdeilir, segir hann vid sérhvern, sem sakramentid medtekur: Þetta er Jesú sannur líkami; Þetta er Jesú sannarlegt blód. Um útdeilinguna syngur söfnudurinn þá altarisgaungu sálma, sem prestur hefur fyrirlagt, þó ekki

leingra af þeim, enn versid sem ástendur, þegar útdeilingin er búin. Þar eptir skal syngja versid No. 218; ad því endudu snýr prestur sér fram og tónar:

**Drottinn sé med ydur!**

Forsaungvari og fólkid ansar:

**Og med þínum anda!**

Því næst snýr hann sér ad altarinu og tónar eptirfylgjandi bæn:

**Látum oss bidja!**

Vér þökkum þér, drottinn, almáttugi og eilífi gud! ad þú med þessari heilsusamlegri gjöf hefur oss alla nært; vér bidjum þína miskunsemi: ad þú látir nú þessa þína gáfu koma oss til alls gagns og góda, og til vorrar sannrar trúarstyrkingar á þér, og til brennandi kærleika og elsku á medal vor innbyrdis; fyrir sakir nafns þíns elskulegasta sonar, Jesú Krists, vors drottins og herra.

Forsaungvari og fólkid ansar: amen!

Þegar einginn er til altaris, tónar prestur í stad þeirrar bænar, eptirfylgjandi bæn:

**Látum oss bidja!**

O herra guð, himneski faðir! vér þökkum þér fyrir þenna þinn föðurlegan velgjörning, að þú af þinni miklu náð og miskunsemi, hefur géfið oss þitt heilaga og sáluhjálplega orð, með hverju þú einnig hér hjá oss safnar þinni kristilegri kirkju. Vér biðjum þig auðmjúklega: géf oss þinn heilaga anda, að vér með þakklátu hjarta mættum taka við því, og hegða oss þar eptir, og ætíð og iðuglega fara varandi í kristilegri trú og kærleikanum, og svo loksins sáluhólpnir verða, fyrir þinn elskulegan son, Jessúm Krist vorn drottinn, sem með þér lifir og ríkir í einíngu heilags anda, sannur guð, frá eilífð til eilífðar.

Forsaungvari og fólkið ansar: *amen!*

En um alla lánga=föstu, skal í þessarar bænar stað, á sunnu=og bæna=dögum tóna þessa bæn:

**Látum oss bidja!**

Vér þökkum þér, guð faðir! að þú hefur

géfid oss þinn eingétinn son Jesúm Krist, uppá það, að allir þeir, sem á hann trúa ekki fyrirfarist, heldur hafi eilíft líf. Vér þøkkum þér, Jesú Kristi! að þú hefur borið vorar syndir á þínum líkama, og með þinni pínu afmáð vorar yfirtroðslur. Vér þøkkum þér, þú verðugi heilagi andi! að þú hefur géfið oss þá trú í vor hjørtu, að vér ekkért vitum annað til sáluhjálpar, enn þann kross-festa Jesúm Krist. Géf oss, ó guð! þína náð, að vér fullkomlega trúum, að allar vorar syndir séu, fyrir Jesú pínu og dauða krapt, oss fyrirgéfnar. Upplýs oss með þínum heilaga anda, að vér, fyrir Jesú dauða daglega afleggjum syndina, og aldrei sleppum Jesú úr vorum hjørtum, þángað til vér sjáum hann berlega í eilífu lífi. Þessa biðjum vér þig allir í nafni Jesú Krists, vors herra.

Forsaungvari og fólkið ansar: amen!

Þá snýr prestur sér fram og tónar:

**Drottinn sé med ydur!**

Forsaungvari og fólkid ansar:

**Og med þínum anda!**

Sidan blessar hann yfir fólkid og tónar!

**Drottinn blessi þig, og vardveiti þig! Drottinn láti sína ásjónu lýsa yfir þig, og sé þér nádugur! Drottinn upplypti sínu augliti yfir þig, og géfi þér frid!**

Forsaungvari og fólkid ansar: amen!

Þegar konfirmerad er, tónar prestur ekki þessi blessunar-ord, fyr enn konfirmatiónin er búin.

Sidan er sá útgaungu=sálmur súnginn, sem prestur hefur valid, hlýdandi uppá rædu=efni hans. Á undan Katekisatión er súngid No. 312, eda 313, og eptir Katekisatión No. 130, eda 314. Endast svo embættisgjörd med eptirfylgjandi bæn, sem lesin er í kórdyrum, og fadir vor:

Drottinn! eg þakka þér af öllu minu hjarta, ad þú hefur nú kénnt mér, hvad þú vilt ad eg skuli gjöra. Hjálpa mér nú, minn gud! med þínum heilaga anda, fyrir sakir Jesú

Krists, ad eg megi vardveita þitt ord i hreinu hjarta, og þar af styrkjast i trúnni, i gudrækilegu framferdi betrast, og mig þarvid i lifi og dauda hugga, amen!

**Fadir vor,** o. s. frv.

---

# Innihald sálmanna.

## I. Lofgjörðar og þakklætis sálmar.

## II. Bænar-sálmar.

## III. Sálmar til vissra tima.



# I. Lofgjørdar og þakklætis sálmar.

## 1. Guds vera og eginlegleikar.

Lagid: Vér trúum allir á einn gud, skapara.

Vér trúum allir á einn gud; Er hans verk himinn og jørdin; Alstríkur fadir er vor gud; Ætt hans manneskjan er ordin. Hann vill oss vort uppheldi veita, Vel ad sál' og lifi gæta; Ei lætur ólukku rata, Eingum voda megum því mæta. A hann vér setjum von og traust, Því vis hann er, máttugur, gódur endalaust.

2. Vér trúum og á Jesúm Krist, Eingetinn guds son vorn herra; A heims

frelsarann herrann Krist, Hvers dýrd aldrei kann ad þverra. Madur ordinn hann er, hafinn Hardt á kross-tré, daudur, grafinn. En hann ríkir æ lifandi Upp hjá drottins hægri hendi; Þadan med krapti kémur hann, Kémur ad dæma jardríkid og sérhvern mann.

3. Vér trúum á anda heilagan, Af födur og syni sendan. Oss frædir, styrkir, huggar hann, Helga bæn til guds fær kenda. Krists um heiminn kenning' breidir, Kært til apturhvarfs menn leidir; Einnig trúna eflir rétta, Og von betra lífs enn þettá, Hvar ödlast munum fögnud, frid Og fullsælu þá, er um eilífd varir vid.

## No. 2.

### Te Deum.

Lagid: Kom skapari heilagi andi.

Vér mikli gud! sé mesti prís, Vor mildi gud! vér þökkum þér; Hver er svo sem þú hár og vís? Hver svo sem þú frá eilífd er?

2. Kerúbím hátt þitt heidra nafn, Hátt þér Serafím róma dýrd; Utvaldra líka sálna safn, Samhljómar þinni eingla hird.

3. Heilagur ertú herra klár! Heilogust vera sí-lofud, Heilagur gud um eilíf ár, Allsherjar drottinn og vor gud.

4. Lof þitt frá hæstum himna kór Hljómar um alla vída jord, Spámanna hópur hefur stór Heidrad þitt nafn med þakkargjord.

5. Postular hafa prísad þad, Og píslarvotta mergdin flest, Á daudastundu dádust ad Dásemdar verkum þínum best.

6. Þig, heilog kristnin, herra gud! Heidra um tíd og eilífd má, Þig fadir! sem ert sannur gud, Son er í dýrd þér lifir hjá.

7. Og gódan helgan anda þinn, Oss sem vid rétta heldur trú; Heidri þig jord og himininn, Hljómi lofgjord um eilífd sú.

8. O Jesú guds son eingetinn! Er lærdóm sannan kenndir oss, Ljósid og fridinn leiddir inn, Og lífsins betra vonar hnoss.

9. Frá daudans leystur dróma nú, Vid drottins hægri situr hond, Aptur munt skodast af oss þú, Oll þegar dæmir jardar lond.

10. Hjálp' oss, hjálp' oss, vor huggun vert, Hefur þú sjálfur keypt oss dýrt, Med ordi sannleiks æ þú sért, Obrygdult ljós, er fái' oss stýrt.

11. Blessa þú líf og sál í senn, Síðar arf himna lát oss fá, Krýn blessun alla kristna menn Og kynið sérhvert jörðu á.

12. Svo friðinn, réttinn, sannleik, trú, Sérhver vel geymi heimsins þjóð, Allir þér þjóni æ og nú, Eindrægni haldi skynsemd góð.

13. O, mikli guð! vér þökkum þér, Þér mildi guð! vér syngjum pris, Hver svo sem þú að hátign er? Hver er, sem þú, í öllu vís?

14. Til þín, til þín, vort traust er allt, Um tíma' og eilífð svo sem nú, Heyr þú vorn sanng, bænheyr ávallt, Auga vorn styrk í von og trú.

## No. 3.

Með sínu lagi.

Heiðnr sé guði himnum á, Og hæst lof fyrir náð sína, Allt vel tilbjó hans vitskan há, Verkin dásamleg skína; Syndugri jörð frið senda vann, Sitt hlýðið fólk æ lætur hann Sína miskun sjá og reyna.

2. Vér lofum, dýrkum og þökkum þér, Þig tilbiðjum alleina; Vald þitt, guð faðir! eilift er, Aldrei kann það að réna; Svo er

þín magt ómæliileg, Algjört er allt hvað þér er í hug, Vel er þeim í trú þér, þéna!

3. O Jesú, guðs eingetinn son, Athvarf og líknin manna! Þú bættir allt vort andar tjón, Eymd vora virðtist kanna. Lausnari'! er dauðann leiðst á kross, Líknsamur sért þú öllum oss, Leið oss veg til lífsins sanna.

4. Heilagi andi, hjálpin trú, Huggarinn allra besti! Frá heimsins svikum forða þú Fólki', sem Jesús leysti Með sárum dauða' og dapri pín. Drottinn! varðveit þú kristni þín', Sem af hjarta á þig treystir.

## No. 4.

Lagið: Upp, uppstatt í nafni Jesú.

Um guð eg syng, því syng eg frór, Sá er vor mikli guð og herra hár; Hans heiti' er drottinn, hans verk stór, Himna gjörvallra' um vídd hans veldi gár; Alvaldur vill, Veröld hver fær sinn stað, Til verður full Með fjöri, sem hann kvað.

2. Hann býður, aptur hverfa þá, Himnar við bending' hans, sitt ekkert í; Ljós er hans skrúði; skýrt kann sjá Skepnuna', hið besta veit að velja því; Guð stjórna réð, Stóls

hans er hátign byggd, Roksamri med Rétt-
visi' og sannleiks trygd.

3. Fullríkur einn auds gnóttum af Óþverr-
anlegum, gud án upphafs einn; Gud um
eilífdir, grunnlaust haf Gæda, farsældar, lífs,
án enda, hreinn. Alvaldi gud Alheims!
hver finnst þér jafn! Hver líkist vid Dýrd
þína' og dásamt nafn?

4. Um himna, fold og haf hvad er Og
hefur verid, allt gud! þekkir þú; Gud! þinna
vísdóms verka her, Frá eilífd augljós var
þér æ og nú, Mér ertú nær, Mig vefur um-
sjá þín, Þú verkad fær Hvíld ad óhult sé mín.

5. Guds forsjá stýrir furdanlig, Því
hvad fyr edur síd eg framkvæmt fæ; Hann
reynir, þekkir þig og mig, Hvert situr eda
gár, nær er hann æ; Hvert ytst hafs á, Eda
skaut himins flýr, Hans er þér hjá Hver-
vetna kraptur nýr.

6. Hann vóg allt út med vissum skamt',
Er vildi' hann skipta mér, og skrádi þar Á
sína bók, hve feingi eg framt Fjörs notid, þá
eg enn nú ekkert var; Ekkert er mitt, Alls
ekkert, drottinn minn! Allt er þad þitt, Í
og hjá mér sem finn.

7. Jafnan skal nafns þíns, drottinn! dýrd, Dásemda þinna hrós, í munni mín! Hver má þin undur út fá skýrd, Ordu og fegurd þá, þeim skært á skín; Í vídum geym, Allt sem til verda léts, Hrósar um heim Hofunds almætti mest.

8. Spegill er þinnar speki skær, Hvert minnsta hálmstrá eitt; þú lopt og lá! Þér hædir, dalir, grund, sem grær! Guds hróss þér leikid ljód lifleg og há; Þín nádar-lind, Landid æ vokvar ný, Fædir mannkind Fridsemd og heillum í.

9. Atvinnu nægtir nótt og dag, Nákvæmri þyggjum vér af þinni hond; Skyldi' ei sú hugsan hjartalag Herra! fridstilla mitt vid efnin vond; Þín hond ad míns, Heill, gud! er lífs og hlíf, Fyrst vilja' án þíns Ferst einkis titlings líf.

10. Ef gud mitt athvarf er og skjól, Ef gud frelsari' og hlíf vill vera minn; Lífs þó umbiltist hradfært hjól, Hverki' um jord hirdi' eg par, né himininn; Umhælist þá Í transti hans vid hel, Ein hans forsjá Allt gjorir til min vel.

## No. 5.

Lagid: A þig alleina Jesú Krist!

Eg þá stjarna útbreiddan her, Augum sje fyrir minum, Upplyptir þánkinn allur sér, O gud! ad hástól þinum; Þin eilif magtin aldrei þreytt, Allt þetta stóra gat tilreidt, Og nær þér þóknast einnig greidt, Þitt ordid eitt Getur af eingu lif framleidt.

2. Mikli, dýrdlegi drottinn minn! Drottinn lifinu yfir! A þig treysti eg æ hvert sinn, Allt blessar þú, sem lifir, Frá augnabliki fyrsta hér, Ad fékk eg lif til gæfu mér, Hver stundin min þess minning ber, Ad merkt hún er, Nýjum velgjordum, gud! af þér.

3. Lika sýna mér löndin, sjór Og loptsins hvelfing vída, Ad þinn máttur er yfrid stór, Eingu þarf eg ad kvída; Þvi aldrei mér sú þraut fær bægt, Þin bending sem ei geti lægt, Og ef vild þinni þad er þægt, Þér veitir hægt, Sumar skapa úr vetri vægt.

4. Hver þjáning, sem mig hittir þá, Herra! eg til þin leita; Þvi vill og megnar hönd þin há, Hjálp og frelsi mér veita, Hvad þú ei byggir hrapa fer, Hvad þú blessar er stödugt hér; Æ! gef þvi blessun mildur mér,

Þín magt ei þver, Þitt vald á himnum há-
leitt er.

## No. 6.

Lagid: Óvinnanleg borg er vor gud.

Allt skedur, gud! sem einn þú vilt, Allt verdur þér ad hlýda; Vern eingrar svo vald er gyldt, Ad vinnist gegn þér strída; Sem fisi feykir burt, Fellir, sem laufblad þurt, Dára fibldjarfa, er Dirfast mótrísa þér, Stjórn þína' ei þekkjast blída.

2. Voldugir! gefid gudi dýrd, Gætid þess hann er nærri; Vitnid þér, menn! guds magt á jørd, Mannlegri tign er hærri; Hann dapurt hressir þel, Heyrir kvein allra vel. Eg reidi' i øllu mig, O drottinn gud! á þig, Aldrei þú ert mér fjærri.

3. Allt hvad mér gagnar gløggt þú sjer, Gefur nægt þeim er snaudur; Svik né ofbeldi' ei blosfra mér, Bid eg i von ótraudur; Mikli, máttugi gud! Mig þú frelsar úr naud; Eg þínu skauti i, Óhultur jafnan bý; Þér sé lof, þøkk og heidur!

## No. 7.

Lagid: Sólin upprunnin er.

Fylsn' eingin fyrir þér Mig fela mega, O gud! sem allar sjer, Upp fyr enn stiga, Hugs-

anir hér Hjartans illar og gódar; Eymdirn-
ar ásamt sjer, Opt sem þúngbærar mér, Aum-
um ofbjóda.

2. Öll veit alvitska þín Ormæddra vin-
ur! Andvörp þeim ondin mín Upp til þín
stynur; Sannfær mig, gud! Synd mig svo
aldrei blekki, Ad hugsun, ordid hvert, At-
höfn og girndir bert, Þú allar þekkir.

3. Fyrst girndir, gjordir, mál, Og gjor-
vallt þekkir, Skal mína syndin sál' Svívirda
ekki; En med varúd, Æ betri' og lastvarari,
Framgeing eg fyrir þér, Fadir! sem til mín
sjer, Í fridi' ad fari.

4. Ef bregdast allir mér, Og vid mér
stugga, Ad þú mig sjálfur sjer Samt skal
vel hugga, Og nær mannlegt Mig heyrir
ekkert eyra, Þú kannt, víst veit eg þad, Og
vilt mér gæta ad, Raust hjartans heyra.

## No. 8.

Lagid: Náttúran oll og edli manns.

Sál! dupti klædd, ei sómir þér Sveyma um
straum lastanna; Dómarinn, sem í upphæd
er, Allar sjer gjordir manna, Öll augum
hans Eru hjartans Opin fylsni hvert sinni;

Oud saurug má Ei búa hjá Alskæru hátigninni.

2. Drottins alskygnu augum frá Enginn kann fylsuis leita, Vinds og eldinga vængjum á Þó vildi flótta þreyta; Ekki neinn þann Umflýja kann, Eingill skaparann mæta, Sem tilbjó heim, og í þeim geym Ad øllu vel nam gæta.

3. Farir þú leingst, sem felur sýn, Fjær enn himin-ljós skarta, Og þó bólfesta yrdi þín, Undirdjúps myrkrid svarta, Ei stadur sá, Þú flúdir frá, Fjær enn hinn, sem þú nádir, Guds hátign er, Sem gætin sjer Gjørla hvar finnast bádir.

4. Eilifi gud! þig einginn hér Umflýr glæpugur madur; Mun þad ørvænting auka mér, Eg svo deyi glatadur? O nei! þín nád, Ædra gaf ráð, Trugg svo trúin standi; Fyrir þinn son, Í fullri von, Fæ eg miskun bidjandi.

5. Nú flý eg því á nádir þín, Naudstaddur vesæll madur, Eg finn og játa afbrot mín, Er fyrir þér skelkadur; Heims biltingar Mig hræda' ei par, Hjá þér ef blídu mæti; En

hirtir þú, Allt fellur nú Í grunn manns-ins dramblæti.

6. Fyr' enn uppkomu fjøll á jørd, Og flódu lækir dala, Adúr enn ljósin urdu gjørd, Og mønnum gafst ad tala, Fyr enn andar Sætt súngu þar, Sem þeim var feinginn stad-ur, Gud sá þad þú, Þar sem ert nú, Þeinkir og talar, madur!

7. Uppi býr gud med eingla her, Er þó hjá þrælum synda, Dýrd heima undir eins hann sjer, Og skuggann smákvikinda, Sem sólu hann Sjá stærstu kann, Svo litur dupt-id valla Minnst eins hvad er, Þess afdrif sjer, Eins og heimsins gjørvalla.

8. Blygdast því, glæpa vesæll vin! Vef þig ei bondum syndar; Aflegg hræsninnar yfir-skin, Augu mannleg sem blindar; Meina ei ad Þann megir stad, Hvar mátt einn heita, finna, Eilift í þér Ætíd þú ber Athafna vitni þinna.

9. Ending tímanna er oss nær, Adstedjar daudans nóttin, Ekkert hæli lífs frekjan fær, Flóttann þó reki óttinn; Aumur er sá Ei fyr enn þá Audmjúkur vildi sanna: Guds

augad er, Sem gjørla sjer Gáng og athafn-ir manna.

## No. 9.

Lagid: Ovinnanleg borg er vor gud.

Allstadar vidverandi gud! Vér þig í ollu sjáum; A hátign þína' í hverjum stad Horfum í stóru' og smáu; Eins lifi' og ond' í hag, Ollu stjórnar hveru dag; Gud! þinn í gledi' og neyd, Gud! þinn í lifi' og deyd, Krapt med oss fundid fáum.

2. O dásøm heill! ad ert oss hjá, Ædri enn hugsast kynni; Ad blídt og strídt, ástgjafir frá Allt eru speki þinni; Þú vora velferd vilt, Vegsama þig er skyldt; Gløggt unnum sídar sjá, Sønn nád og speki há Var stjórn þín sérhvert sinni.

3. Géf ad eg lastvar vandi vel Verk mín og hegdun ætid; Þvi hjartans líka hulid þel, Herra! þú vel adgætir, Sú hugsan hjálpi mér Ad hlýda þér, sem ber; Hér svo mér hegda þá, Hugrór ad birtast má, Fyrir þér þá eg mæti.

## No. 10.

Lagid: Heidrum vér gud af hug' og sál'.

Gud! í ollu, sem eg lit ské, Med undrun þina speki' eg sje; hønd þín ádur enn heim

tilbjó, Hann sástú víst frá eilífd þó; Þín vitska gløggt hvern þánka sá, Þann feril allt skal gánga á, Afdrifin líka', er allt skal fá.

2. Allt vottar þad, ad þér ber prís, Þú sem ert furdanlega vís! Alheimur fagur undra stór, Allt hrópar: vitur gud er vor! Hvert strá og høfud-hár, øgn hver, Ef hugleidd er, af øllu ber, Veraldar ment, sem vinna fer.

3. Allt, allt til samans hrópar hátt, Um herrans speki, gædsku, mátt; Eg skal því, fadir! uppá þig Øruggur jafnan reida mig; Einn þú hid besta ávallt sjer, Afskamtar best, sem líkar þér, Hverjum þad veitstú hentast er.

4. Drottinn! lát speki þína þá Þrótt og huggun mér ætíd ljá; Hérvistar þá um hættan veg, Hvorki uppgéfst né mogla eg; Hvad ætti ské edur ekki um sinn Ei megnar skynja hugur minn; Verdi því, fadir! vilji þinn!

## No. 11.

Med sínu lagi.

Lofid gud! Lofid hann hver, sem kann! Gjørvøll þjód, Já, gjarnan heidrid hann! Allir menn um allan heim, Ætíd hann prísi, Dýrd

allsherjar drottni þeim Dag hvern auglýsi, Af því hans Ædst miskunsemi Kyni manns Kunn er í heimi, Ei vors lands Innbúum gleymir, Fost og traust í ást á oss. Allt hvad hræra anda kann, Æ hann vegsami! Allt hvad bærist heidri hann, Og hátt lofi! Amen!

## No. 12.

Lagid: Jesús Kristur ad Jórdan kom.

Gud! mikill ert, þig einglá her, Otolulegur prísar, Vegsemd og dýrd æ votta þér, Veldinu guddóms lýsa. Þú, sem býr ofar hæstu hæd Himna, sjá! þess ber vottinn Vorsins inndæli' og skruggan skæd, Skært sólskin, dynuna, nóttin: Ad mikill ertú, drottinn!

2. Eins gódur ert, gafst einglum líf, Og oss, sem dupti klæddir, Þinn berum svip og þína hlíf Þokkum; allt hagsæld gæddir. Vor, sumar, haustid sýna lýd Sanna nád, þeim og medur Veturinn, frostin furdu stríd, Felli-bylja stormvedur, Allt lof guds kærleik kvedur.

3. Fyrir dómstólinn þegar þinn Þjódirnar náir kalla, Og hristist jardar-hnötturinn,

Háreistar borgir falla, Þitt veldi eg sje, skélf, þeigi þá; Þú lýsir fridnum blída, Og sképnan gledst, því elsku sá, Sem allt má skapad hlýda, Dupti ljer drottinn lýda.

4. Hjartann ogra ógn hver þá, Istodu-litla skyldi, Obrygdula fyrst er ad sjá Um-hverfis þina mildi; Ef jardarhnott umspenna fer Eldur med vatna flódi, Min von, mitt traust skal þó á þér, Svo þrautin sist of-bjódi, Gud miskunsami' og gódi!

5. Daudinn ei bløskrar dapur mér, Né dymmir grafar skuggar; Þín gædska, sem mitt athvarf er, I allri nevd mig huggar; Or-uggan mig ad eilifd ber, Þá ad vill daud-inn fara, Oruggur sje hann, øruggt fer A fundinn mins Dómara; Mins guds og mins elskara.

## No. 13.

Lagid: Heidur sé gudi himnum á.

Gódur er gud, í allri átt Af gædsku verk hans ljóma; Allt gledst sem hefur andar-drátt, Ast hans og vernd samrómar, Af ást því skapa allt hann réd, Ast gledur hann og blessar med; Pris guds ástar æ skal hljóma.

2. Gud! þú baudst, jordin gróa réd Grænt i skrúd eingid klædir; Jord vora fyllt-ir frjófgun med, Fékkst oss vit hennar gædi Oss ad hagnýta, heilsu, frid Og hagsæld gafst oss, þina vid Ást og nád vort kann-ast kvædi.

3. Fodurlega lífs fram á skeid, Frá æsku þú oss leidir, heyrir vort kvein i hverskyns neyd, Henni med nád úrgreidir; Ad gud vor einskær ástin er, Eins i mótgángi fundum vér, Reynsla sú best raunum eydir.

4. Þú gafst oss krapt' ad gætum hér Geingid fram lífs á vegi; Opt þó rosudum veikir vér, Vor gud burthratt oss eigi, Af vegi skeikud vor samt spor Vel áfram greiddi fadir vor, Med ást sær oss ad sér dregid.

5. Unn oss svo leidast, fadir! fá, Fodur-hönd vidur þina; Þinum ei víkja fótstig frá, Fúsa þér hlýdni sýna; Því þess fagnandi fá-um gád, Fodur vors bod eru', einskær nád; Oss lát þessu aldrei týna!

6. I ró vor skundar æfi-stund, Oss, drottinn! vegferd greidir; Ur grofum væran eptir blund Alla til þin heimleidir; Þá i

fögnuði' og friði vér, Faðir! um eilífð syngj-
um þér Lof, ástkæri! æru og heiður.

No. 14.

Lagið: Gleð þig guðs sonar brúð.

Þér himnar! hefjið dýrð, Að hún sé drottni skýrð, Lofið hann í upphæðum, Hrósið hans magt og gæðum! Her hans og einglar allir, Æ lofi hann gjörvallir!

2. Seig þú lof sólin kær, Og sérhver stjarnan skær, Loptið skal lof guðs frama, Líka túnglið hið sama, Hvað, sem er yfir og undir, Allar lofi hann stundir!

3. Veglegast vatna safn Víðfrægi drottins nafn, Forkunnar fagursmíður, Fullgjört er hvað hann býður, Hans niðurskipun halda Heimar um aldir alda!

4. Hann lofi landrið fríðt, Og hafsins djúpið víðt, Eldur, hagl, úði, skrugga, Ofviðri, regn, snjór, nugga, Hvað eitt guð heiðri, prísi, Hátign vors drottins lýsi!

5. Hálsar og háu fjöll Heiðri þig, drottinn! öll, Dalir, grasbúnar grundir Gjaldið prís allar stundir, Fuglar, dýr, kvikfénaður, Fjöldinn sem skríður glaður.

6. Allt fólk um allan heim, Æ syngi gudi þeim Lofgjørd, sem líf, heill greidir, Líkn veitir, meinum eydir, Føgnud, ljós, farsæld gefur, Vid fødur-hønd leidt oss hefur.

7. Allt hvad er skapad skal Med skýrt lofgjørdar tal Hans nafni heidur greida, Herrans lof vidt útbreida, Allt yfir himna alla Og jørdina gjørvalla.

8. Lofi gud allt hvad er, Og hvad sem var og skér! Hann allar heidri þjódir, Hans fyrir son, vorn bródur Jesúm, dýrd sé honum samin, Sýng lof guds kristni! Amen!

## No. 15.

Lagid: Guds son kallar: komid til min!

**V**or gud er einskær ást og nád, Æ hverrar sképnu best sær gád, Og eflir heill i heimi, Hann blessar hvern dag allt hvad er, Oss sinum børnum nád hann tjer, Og sképnu eingri gleymir.

2. Fadir! oss skópst til farsældar, Flýtur af þinnar miskunar-Lind, allt gott, allt bjargrædi; Sadning' hverri og svaladrykk, Er sjór og jørd oss borid fékk, Orlát þin gædska' oss gædir.

3. Í náđ þú minnist ætíđ vor, Af þér stjórnast vor lukkukjör, Hvort sæld eđa sorg oss greiđir; Þú ert hjá oss í allri neyđ, Oss, góđi guđ! í vorum deyđ Föđurhönd þín framleiđir.

4. Eins og fađir áminnir þú, Ódygđ ađ hata' en geyma trú, Er dygđ laun eilíf geldur; En þó vér brjótum bođorđ þín, Vorgunnarmannsins vitum pín, O guđ! ađ vægđ oss veldur.

5. Já, þú ert einskær ást og náđ, Eflir vort sanna hjálpar ráđ, Öll skal því eilífđ lýsa; Hér byrjum vér međ barna-róm, Í borg þinni međ eingla hljóm, Ást þína æ skal prísa!

## No. 16.

Međ sínu lagi.

Guđi lof skal önd mín inna, Upplypti raust og hugur sér; Síst ber ađ láti' eg linna, Líkn hans, magt, speki ađ prísa hér; Sekt gaf upp glæpa minna, Guđhræddra styrkur er; Hans náđ ef hyrđi' eg sinna, Hún krapt sinn á mér tjer, Í neyđ lét fögnuđ finna, Friđ mæddu hjarta ljer; Í víst himins heimkynna Hann sælu geymir mér.

2. Alvaldur ást lét róma, Og endurlausn oss framband hann; Sem fadir alla fróma Í fridar sáttmál taka vann; Hann firrist hefndar dóma, Hirta sem fadir kann; Sér lætur miskun sóma, Sekum vidreisnar ann; Himneskri náð band hljóma, Hvar sem sinn ótta fann, Hans ást umhverfis ljómar Hvern einn rádvandan mann.

3. Blídur fadir án bræði Bresti med vorkun litur á; Eins vægja guds huggædi Grandvorum, sem hans ótti' er hjá; Veikt erum, veit hann, sædi, Vorri módur, jørd frá, Mót dandans megna ædi, minna enn visid strá; Sem fisi sveifli um svædi, Svo lifi fyrirbrá; Menn hverfa í moldar nædi, Margir seint ad því gá.

4. Drottins ónmbreytt eina, Um eilífd standa mun þó náð; Pad fá hans þjónar reyna, Peir, sem vel hafa' hans boda gád, Ástunda ætíd hreina Eflingu' í vitsku' og dád. Komid! lof gudi' ad greina! Gladir hans prísid ráð! Hann børnum likn vill beina, Pó búi' í dupti smáð; Bót fær þeim mildur meina Medur sæld himna tjáð.

5. Pris skal fagnandi færa, Fodur, syni og anda nú; Heidrist þin hátign skæra, A himni' og jordu, gud! i trú; Þeim var og er sé æra, Æ hljómi lofgjord sú! Af þeim, er anda hræra, Um eilifd gøfgist þú! Eingl-anna lofsaung læra I lifi' oss undirbú, Þig sjá, þér syngja kæra Þøkk, heillum til vor snú!

## No. 17.

Lagid: Svo elskadi gud annan heim.

O gud! þér hrós og heidur ber, Mitt hjarta lofgjord færir þér, Þú stjórnar, herra! hog-um min, Hønd var yfir mér jafnan þin.

2. Neyd þá mitt-hreysi nálgadist, Vid neydar-kvein' ei daufheyrdist, Guds mér af-létti gædskan þin, Glatast lét ekki' i eymd-um min.

3. I sótt og verkjum lágt eg lá, Likna mér, gud! kallad' eg þá, Alvaldur fadir áleit mig, Aptur minn styrkur græddi sig.

4. Óvina heipt þá hug minn skar, Harm þann ángurvær gudi' eg bar, Min svo ei hefndi hjálpadi' hann, Hug minn þolgædi styrkja vann.

5. Viltur þá réttum vegi frá, Vafinn mig synda neti sá, Um fødur-náð eg hrópaði' hans, Hans náð varð styrkur aumingjans.

6. Huggun sárþreyði hjartað mitt, Því huldi drottinn auðlit sitt; Hvað leingi guð! eg hrópa' á þig? Hann yfirgaf ei veikan mig.

7. Hans miskun enn mun hjálpa mér, Herrann trúr og líknsamur er, Frá illu hann mig frelsar vel, Fúst mitt til dygðar gjörir þel.

8. Rannir og neyð eg þakka þér, Þá, sem ástríkur! sendir mér; Gøfga fyrir þá gleði þig, Er gæðskan þín vyrdtist sæma mig.

9. Heims fyrir lán eg þakka þér, Þinnar trygðar, sem ástgjöf er; Þér þakka' að skópst oss allt í hag, Er þín gæðska ný sérhvern dag.

10. Fyrir þá gæðsku' eg gøfga þig, Að gafst þinn son út fyrir mig; Af øllum mætti, øllum hug', Og allri sál' eg prísa þig.

11. Guðs verk um eilífð gøfgi' hann øll, Guðs er af miskun jørðin full, Þér sé vegsemdin, heiður, hrós, Hjálpar þú fús og líknar oss.

13. Þó sé hjá oss að kvøldi kvein, Kæti' er að morgni og unan hrein, Þá reynslu-

tíminn úti er, Oss leiđir hann í dýrđ hjá sér.

13. Aldrei, mín sála! guđi gleym, Gjald lof mildasta föđur þeim, Međ ást, trú, hlýđni, heiđra hann, Herra náđugan tilbiđ þann!

## No. 18.

Lagiđ: Nú biđ eg guđ! þú náđir mig.

O hvađ stór gudleg gæđska er! Góđa manns art sá ekki ber, Hvers svo er forherdt hjarta' og géđ, Hana ei kann né þakka réđ. Guđs elsku prófa' og una viđ, Ætíđ veri mitt skyldu miđ; Ei gleyma vann hans miskunmér, Minnast hennar því skyldugt er.

2. Meistara hönd hver mig tilbjó? Míns guđs, sem mín ei þurfti þó; Hver međ lánggæđri hlífđi náđ? Hann, þess eg opt forsmáđi ráđ. Hver gaf mér sinnis hvíld og friđ? Hver andans krapta rétti viđ? Hver gaf mér þúsund gæđi' ávalt? Guđs nema hönd, sem skapti allt.

3. Lít upp, mín sál! og sjáđu bert, Það sæla líf, til hvers sköpuđ ert, Hvar þú í dýrđ um eilífđ sjer Einn guđ í veru, sem hann er, Til æru' og gleđi áttu rétt, Af

mildi guds er þad tilsett; Inngángur lífs svo opnist þér, Í dandann geinginn Jesús er.

4. Skyldi' eg þann gud ei heidra hér, Hans gædsku' ei láta skiljast mér? Skal hann hrópa, eg heyra ei, Hann leidrétta, eg segja nei? Hans vilji' og ord innskrifad er Í mitt hjarta, sem styrk því ljer, Allramest gudi unna ber, En náúnga likt sjálfum mér.

5. Þakklæti kýs hann þetta' af mér, Þad í gódgirni' eg líkist sér, Fús ef eg skyldu fylli þá, Fögur sjest mér hans líking á. Hans elska' ef lifir í mér góð, Orfar hún mig á skyldu slód; Síst gét eg fundist sak-laus hér, Synd þó ei drottni yfir mér.

6. O gud! sé fost fyrir augum mín Ætíd kærleiksfull gædska þín; Alúd dygdanna' hún orfi mér, Ad mitt liferni helgist þér; Í hörmúng sé hún huggun mín, Hún leidi mig í sæld til þín, Og endur-hressi' á efstu stund, Andláts géfi mér væran blund.

## No. 19.

Lagid, Jesú Kristi! þig kalla' eg á.

Þú ert réttvís alvaldi gud! Öllum sín laun ákvedur; Vesæll er hver þín heilög bod Hirdu-

laus yfirtredur; Æ þess í tíma gef mér gá, Guds ad réttlætis dómar, Kvídvænir koma, Og hardir dára hitta þá, Hans bidlund er forsóma.

2. En hinn, sem lastvar hlýddi þér, Á himnum gledi mætir; Þó dygd af eingum þekkist hér, Þrjótskur syndarinn kætist; Samt mun þín gædskan gløggvast þar Guddómlegt ljós í leidast, Allt myrkur eydast, Og kjør réttvísrar umbunar, Eins dygd sem løstum greidast.

3. Kenn þig ad elska, minn gud! mér, Og mitt líf dygdum prýda, Þín skipan speki øll því er, Og gledi þér ad hlýda. Hjartad þá mun ei hrædast mitt Þitt helgasta réttlæti, Þad kveikir kæti: Ad mér þú geymir hvossid hitt Hjá þér í dýrdar sæti.

---

## 2. Skopunar-verkid.

---

### No. 20.

Lagid: Í dag eitt blessad barnid er.

Hef þig, minn andi! handrid mér Hljóm byrji med lofkvæda; Vor drottinn stór frá

eilifd er! Øll jørd og himnar ræda; Já, yfir allt er herrann hár, Hann band og guddóms skipan klár Ein tilbjó allt veranda: Sól, stjørnur, himinhnatta hjørd Hann gaf, útdreift sem fis á jørd Og sandkorn sjáfarstranda.

2. Gakk hátt min saunglist! glød i fylgd Guds eingla raddar-hljóma: Gud skaparinn er gædska mild! Gélli vid þúsund róma; Gud skaparinn er eilif ást, Vid ord hans lifid streyma sást J lik øll, sem lifa kunna; Gud er sjálf elskan, gud vor, já! Geingur øflugur hródur sá Af mergd ótaldra munna.

3. Min lofgjord hærra lypti sér, Lýsi dýrd verka þinna! Gud yfir allt æ gofgum vér, Guds krapt má hver einn finna. Gódur, vis er vor gud og stór, Greinir himins og jardar kór, Hvad skapt er hann band væri; Allt' stód þá prýdi' og ordu i, Oendanlégum gudi þvi Hans øll verk heidur færi.

## No. 21.

Lagid: Gædskurikasti grædari minn.

Hver má, gud! skynja hugur þig? Hver ædstum gudi likja sig, J anda veldi vidu?

Þig, drottinn yfir öllu einn, Sem ert fullkominn, helgur, hreinn, Hátt lofar heimsins smiði. Tign æðst, Ást stærst, Eilíf vísust, Verð að prísast, Vér því greiðum Lofgjörð, þakklæti þér og heiður.

2. Þú ert og varst eilífu frá, Um aldir vera munt, og sjá Ei þitt alveldi þrotna. Þú skipar, heimar skaptir stá; Þú skipar, heimar undir gá, Því þú einnsaman drottnar; Lopt há, Láð, lá, Gjörir prísa', og Gjörvallt lýsa Guðdóms megni; Drottinn vor ond því í dupti tigni!

3. Guð! þín stærð er ómælanleg, Umkringir guðdóms ljósið þig, Dauðlegum ofskært öllum; Þó er þinn kraptur öllu nær, Alheima', — er skynsemd mælt ei fær — Geym ræður þú gjörvöllum; Eins smærst Og stærst, Allt ber vottinn Um þig, drottinn! Er vér sjáum Í þínum verkum og fundið fáum.

4. O guð! hvað værum vér án þín! Vitska þín birtir undur sín Í hæðum og á jörðu; Til heilla oss, en heiðurs þér, Hönd þín stjórnar og máttug ber Sképnur í skaptri orðu; Eins blídt Og stridt, Þú áleggur, Því

vorn gloggvast Þekkir haginn, Eins i svart=nætti' og um hádaginn.

5. Vegsamid þá med helgum hljóm, Hátida saung og gledi = róm, Hann allra drottna drottinn! Blóm láds, skraut himins skodid þrátt, Skodid hans speki, gædsku, mátt, Hans guddóms veldis vottinn! Skodid! Skynjid! Ydur gledjid Og tilbidjid Allra fødur, Gud fyrir krist vorn kærsta fodur.

## No. 22.

Lagid: J dag eitt blessad barnid er.

Hátt syngid drottni hæsta lof, Hann prisa madur! áttu; Til eingla = tignar hátt þig hóf, Sá himna skóp vidáttu; Allt hvad hans veldi lif nam ljá, Lofi' hann hvad sina visu á, J fagnadar flokki einum; Syng, himinn! dyrd, lof syng þú jord! Syng skaparanum þakkar=gjord, Hvers gædsku gjorla reynum.

2. Gud, hver má samjafn heita þér? Hver likur nefnast skyldi? Allt skapad vottinn blidn ber, Allt blessar fodur = mildi. Orm og Serafim álitur, Og beggja kjor þinn visdómur Med kærleik réd ákvarda; Eg þin

mannkynd, heill hvílík mér! Hátignar þinn-ar ímynd ber, Já, eilíf á að verða.

3. O drottinn! hvílík unan góð I al-heims hríng margbrotna, Um lopt, jörð, sjó er líf og hljóð, Guðs lýsir stjórn hvervetna! Þrumu-gnýr, leyptur, elding er, Allt þinn-ar náðar vottur mér, Eg skal með hrærðum anda, Eilífi guð upphæðanna Þér, allra lind-in gæðanna, Um aldir vegsemd vanda.

## No. 23.

Lagið: Hjartað, þánkar, hugur, sinni.

Gef mér skyn að skýrt eg prísi, Skapari minn! þitt vald og krapt, Hvar með guð, þú góði' og vísi! Gjörvallan fékst heim voru skapt! Efl og styrk minn innra-mann! Að yndis heilags njóti hann, Verkin þín, mig vyrðstu' aðstoða, Vegleg meður lotning skoða.

2. Jörð og himinn-hvolfið bláa, Hæstur tilbjó kraptur þinn, I því stóra' og í því smáa, Alveldis mátt sama' eg finn, Allt í fagra orðu sett, Allt framgeingur víst og rétt, Um allt eg má með undrun ljóða, Allt sé hér hið harla góða.

3. Hvað þín fram á hverjum morgni Há-

tignarleg brunar sól, Að ljómi, gleðji, lífgi og orni Láðs vors myrkva' og kalda ból! Hvers hönd mældi hennar skeið Hringbogið um loptin breið? Að hennar slokknar ekki eldur, Aldrei skerðist, hver því veldur?

4. Loptið oss með lífi gæðir, Lífgar vort og styrkir fjör; Í regnskúrum ofan flæðir Af þess brunni frjóssemd ör; Stormaher þar hertýjast, Hér þitt dunar þrumukast, Fold sem gagnar, fold sem hræðir, Og furðu hátt, hver guð sé, ræðir.

5. Hver mið setti sjáfar æði? Sagði lindir fram brjótist! Lét votn halla hafs að flæði Hvar uppsprettu náðu fyrst? Jarðar holu iðrum í, Elds hver megni stjórnar því? Hver í fylsnum fjalla geymir Fagran málm til nota heimi?

6. Hver með laufi skóga skrýðir, Skreytir grænum blóma fold? Hver orma gleður, elur, prýðir? Upp hver lífgar dauða mold? Hver gaf sál' og sansa mér, Sem skynbragð á margt nú ber, Og til þín má þánka snúa Þú alvaldi', og á þig trúa?

7. Allt það skópstú, allt ber vottinn, Um almátt, speki' og gæðsku þín; Lífsins, föður

dýrka' og drottinn, Með dygð og trú skal
öndin mín. Já, guð, vor guð víst er stór,
Það vottar himinn, jörð og sjór, Lopt, vötn,
eldur, allt til samans, Öll veröldin segi: amen!

## No. 24.

Lagið: Kom skapari heilagi andi.

Upp! upp! allt hvað guð hefur gjört, Hof-
mund vegsamið, prísið þann! Það minnsta' er
skóp hann mjög er stórt, Mátt hans og gæðsku
birta kann.

2. Þó kæmi saman kóngur hver, Klædd-
ur í skrúð með völdin há, Eitt grasstrá skap-
að gætu' ei hér, Guðs bending ein kann
fella þá.

3. Eingla herskarinn eins hér fann, Of-
veikan þeirra himinn-krapt, Af eingu því
að aldrei kann Eitt duptkorn minnsta' að geta
skapt.

4. Æ öll vanmáttar augljós spor, Hjá
öllum skepnum birta sig; Ó hvar má finna
orð, guð vor! Er verðuglega prísi þig?

5. Hvað fæ eg sagt, nær fjölbreytt lit
Fold að umvefja blómstur skart? Og allan

gróda' um eingi, er nýt, Eins nær og fjærri þúsund margt?

6. Hvad sæ eg sagt, nær fugla-krans Fagran samstilla heyri róm? Otal hljódfæra unnfram dans, Ondin kætist þann vidur hljóm.

7. Hvad sæ eg sagt, umhverfis mig Nær her af kvikum sképnum sje? Hvad guds frá himni' er sýnir sig Sólin upprunnin geislandi?

8. Hvad sæ eg sagt, mér furdu fær, Fagurt blikandi stjarna her, Blídt sje eg hver ein brosir skær, Sem bendi upp til himins mér?

9. Hvad, samsaung anda' ef heyrdi eg, Hátign míns guds sem vegsama? Gud er stór, tign hans guddómleg Gøfgist og nafn, hallelúja!

10. Undirtaki med anda kór, Allar kynkvíslir veralda: Guds nafn vegsamist, gud er stór, Gudi sé dýrd, hallelúja!

## No. 25.

Lagid: Hjartad, þánkar, hugur, sinni.

Gladvær jafnan gøfgi, prísi, Gud minn! þig einn ondin mín; Hver er, sem þú, sá

þinn vísi; Sannast ráð og speki þín. O! að mætti andi minn, Í öllum þínum verkum þinn Vísdóm þekkja, þekktum lýsa, Þekktan hver, sem æ má prísa!

2. Í bjortum fjarska hátt uppheingdi Hog þín speki sunnu-hvel, Með stjarnahnottum haglega teingdi Hnott vorn, ljóss svo nytum vel; Sól þar hángir eingu á, Einn þú styður, falla' ei má, Vermir, ljómar, lífgar, hressir, Ljóss þins dopur ímynd þessi.

3. Ærnum þúnga, hver svo heldur, Himinn-kroppa, jafnvigt í? Lopt þú skópst, hver veit hvað veldur, Verold líður fram i því? Mið hver sólu setja réð, Svo vísdómi' og dásemd með, Að yl og birtu senda sinni Sól veroldu' og frjófgun kynni.

4. Hver fram loptið heimti', umvefur Hér sem oss, allt bera má? Allt af því líf, hræring hefur, Hitt, sem lífs er andi hjá; Dampa saman dregst þar megn, Dogg í snýst og frjóssamt regn; Frjóssemd, blessun flytur heppna, Fram til mín og allra sképna.

5. Hver nam lopt svo laga' að géti Leyptur fædt og þrumu gný? Vinda stryk að fljótt umfeti, Fuglinn léttfær sveymi' í því?

Ad þad veri' ad eyrum hljóm, Ad til dýrdar þér vorn róm Lifgi þad, og fleyti finnim Fiskum hægt í afgrunns kymum?

6. Hver vann svo, ad hátt uppgnæfi, Hessa jord úr djúpum sjó? Vötn skamtadi hver í hæfi, Henni svo ad yrdi frjó? Hver vötn þekur? hver þau nam Hepta, kveikt þá velta fram? Hafs vid öldur háar segir: hingad æsist, leingra eigi?

7. Grundir hver í grasi vefur, Græddi skóga' á eydi-lód? Korns og víns hver gnóttir gefur, Græna' um dali fjöllum hlód? Marmara hver og málma fjöld Midt í jardar idur köld Lagdi? eldum gjár hver grefur? Gjörvallt skranti hver umvefur?

8. Gud! þín vitska bjargar, blessar, Býtir nægtum, prýdi ljer, Stydur, verndar hýrgar, hressir, Heimi líf og farsæld tjer. Guds hátign eg gladur sýng, Og guddóms vottinn allt um kríng; Guds, minn andi, laungum lýsi Og losi speki, þakki, prísi!

## No. 26.

Lagid: Guds son kallar: komid til mín!

Frá hreysi því, sem eg bý í, Augum eg til

þins hástóls sný, O þú ósýnilegi! Hvad stór þú ert, þad miklast mér, Margføld því alheims dásemd er; Allt verdur, er þú segir.

2. Vid bod þitt heimur hver uppris, Hvad ertú máttgur, gódur, vis! Sønn orda sú því lýsir Orøskud, hverri áfram í Allt sveymar, sem fyrst gafstú því, Allt hátign helga prísi!

3. Gud! hver kann fjarska furdu geym Fá mælt, og takmørk sjed um heim, Hvar ótal hnettir sveyma? Vaumegni hyggju manns ad slær, Megin dýptir ad horfa' í þær, Og ómælandi geyma.

4. O Gud! hvar byrja? hvar þrot fá? Hvert þíns alveldis takmørk ná? Ord, mælingu', þánka þrýtur; Þrotlausan undra þann geym má, Þar sólir sólum hærra stá, Ei veit hvar enda hlýtur.

5. Oþekktir hnettir útleidast, Otal þúsundum fjølbyggjast, Otal alveldis sæti Þau verda sérhver þá fyrir þig, Þér, mikli gud! øll hnegja sig, Þér audmjúk þjóna ætid.

6. Þér hneigir allt hvad þeinkja kann, Vid þig øll fagnar náttúran; Þér afgrunns hylur hlýdir; Þín bending lægir bylja þrá,

Bifast grundvollur heimsins má Og bresta nær þú býdur.

7. Sjá, Guds tign játa gløggt eg finn Gjørvallan anda vanmátt minn; Alveldis hønd eg eygi, Ein sem verk hefur algjørt sitt, A ordu, tíma' og krapt fékk hitt, Hverju sem haga megi.

8. Hønd þin fullkomleik hagkvæman, Hverri sképnu medskapa vann, Ætla fjør, edlis krapta; Allt vard ad þvi, sem vera skal; Visdóms hér sjest hid mikla val, Ædsta fékk ordu skapta.

9. O guddóms verka undrin há! O túngur! sem ei telja má, Ein er ydvart lofkvædi Algædskan; prís svo sýngur sinn, Sérhver lifs kraptur: skaparinn Er einskær elska' og gædi!

---

## 3. Guds forsjón.

---

### No. 27.

Lagid: O drottinn allsvaldandi!

Lofid drottinn lifanda! Ljúfur, sterkur og vis sem er, Kyn, honum keypt til handa!

Komum med saung hann prísum vér! Hver mun jafn Honum vera, Heilagt nafn Veldis bera! Allt lífs safn Æ dýrki þann herra!

2. Lofid drottinn lifanda! Er lét oss skína dásemd á, Býr oss heilsu til handa Og hvad sem farsæld efla má; Enn þótt neyd Á oss strídi, Old þó deyd Fyrir kvidi, Herrans greid Hjástod verndar lýdi.

3. Lofid drottinn lifanda! Ljúf drýpur blessan himnum af; Hjá oss vid størf réd standa Og styrk í allri mædu gaf. Augu manns Øll, sem kjósa, Æ sjá hans Forsjón ljósa, Borg og lands-Bygdum á sér hrósa.

3. Lofid drottinn lifanda! Sem leidir, stýrir, hagar til, Og lætur einnig standa Af illu gott, oss þrátt í vil. Himna kór, Haudrin svara: Hátign stór, Er skapara; Gjørvallt sór Guds lof ei ad spara.

5. Lofid drottinn lifanda! Lád-byggjendur med eitt samtak! Hans lofgjørd himnar vanda, Hann þyggur og vort auma kvak. Gud vor er Gud alvaldi; Gøfgum vér Hann um aldir; Hvad lífs fer, Honum vegsemd gjaldi.

## No. 28.

Lagid.: Ris upp, min sál! og bregd nú blundi.

O! þó eg hefdi þúsund munna, Þig ad veg-sama, drottinn minn! Min veika lofgjørd mundi' ei kunna Mikla nóg fødur-kærleik þinn, Af því þin medferd øll á mér, Undr-unarfull og dásøm er.

2. Þó feingi raust min fagur-rómud, Flogid svo vidt, sem alheims-ból; Og lypt sér upp minn lofsaungs hljómur, Léttfær ad drottins tignar stól; Hvar eingla røddin of-dauf er, Olln midur þar farnast mér.

3. Sem barn þó fái' eg fadir kvakad, Furdu léttvæg er þokkin min, Þú vilt mitt offur þó medtaka, Þóknun medur af gædsku þin, Þú veitst min orka' er veik og smá, Viljann þú einan litur á.

4. Um mig þú fødur-forsjón vefur, J fadmi þinum ugglaus bý; Til þarfra ydna þrótt mér géfur, Því nýt eg brauds af hørmum frí; Fadir! øll gledi' og farsæld min Flýtur af brunni gædsku þin.

5. Frá minnar æsku fyrstu stundum, For-sjá þin nákvæm leiddi mig, Þin hønd mig dró frá hættum syndum, Hvatti: ad elska

dygd og þig; Þá fótur skeika mátti minn, Mér jók dug og hug andi þinn.

6. Svo leingi túngan sig má hræra, Saungrødd mín glød skal prísa þig, Hjartad skal þakkar-fórn þér færa, Fær medan hreist i brjósti sig; Þig, er eg hnig í daudans dal, Dýrka sídasta andvarp skal.

7. Mín glada ønd þá upp sér lyptir, Ódaudleg frjáls i himininn, Og einglum jafn eg eymdum sviptist, Enn fegur hljómar saungur minn; Ædra med himna hird eg þá O herra lof þér sýngja má!

## No. 29.

Lagid: O! þú gofuglega þrenning!

Himna gud og hjartans fadir!
Heidur þinn vér sýngjum gladir.
Þúsundfaldt þøkkum vér þitt hjálprædi,
Líf, heilsu, føt og fædi.
Vort skyn allt, vor raust þér vegsemd færi',
Er sképnur allar nærir.
Þín voldug hønd, drottinn, verndi' oss hér!
Veit lands gróda,
Veit oss heill og hagsæld góda.
Lát oss vel læra ad lifa þér,

Líða og þreyja,
Loks í trú þér líka deyja.
Og útvalda,
Um aldir alda, æðst lof segja!

## No. 30.

Lagið: O drottinn allsvaldandi!

Óttast, min sál aldreji! Eg þó vinalaus standi' um sinn, Og þó eg hitta eigi Orbirgð og sótt, því hugur minn Traust guð á Sífeldt setur, Særa má, Hvað sem gétur, Ort mun fá Enda hrygðar vetur.

2. Eg hræðist ei þó sjái Allrar veraldar fjörbrot hörð, Eða þó æða nái Ogn og skélfing um lopt, haf, jörð; Guð mig leidt Gétur tryggur, Grandi eydt, Best þá hyggur, Hjálp tilreidt Hann fær, nær áliggur.

3. Eg er almættis handa Agæt sképna, mitt hjartað i Sitt gaf hann orð og anda Af náð frelstum ei gleymir, því Hann best sjer, Hvað mig bætir, Hann mig ver, Neyð þá grætir, Náði mér Náð hans, hvað sem mætir.

4. Hér mitt reynslu-stand heitir, Himininn er mitt föðurland, Til hans sér hugur

fleytir, Hvar, eptir skammvinnt mein og grand, Gledi sá Géfst mér bestu, Gædsku þá, Dásemd mestu, Set eg á Sanna traustz stadfestu.

5. Öll lidnu lífdaganna Lídan um eilífd gleymist þá, Í flokki' útvaldra manna, Eg nær helgadur birtast má, Sigur-krans, Senn í ljóma, Sælu lands, Ber med sóma, Frelsarans Fæ eg vegsemd róma.

6. Fyrir þær gnóttir gæda, Guds son er oss tilbúa fór, Eg lofa gud upphæda, Eingla hans medur saungva-kór, Alls nægd þá, Er þar gledur, Einginn má Túngu medur Greina, sá Glansi er óssjedur.

7. Min sál hér medan þreyir, Mænandi horfir, Jesú minn! Eptir þeim yndis degi, Ad sjá hátignar ljómann þinn, Eilíf þá Audnast kæti, Er eg má, Herrann mæti! Frelstur stá, Fyrir þinn' hásæti.

8. Hjá þér öll heimsins mæda Hlýtur í gledi snúast mér, Þar kann mig hrygd ei hræda, Harma-grátur afþerrdur er; Gladur því Gröf ad vendi, Guds dýrd í Hug minn sendi; Hress og frí Hlaup mitt svo eg endi.

## No. 31.

Lagid: Gædsku guds vér prísum.

Einn guð þér allir prísið, Og lofið drottins náð, Allt skér til góðs, auglýsið Öllum hans stjórnar-ráð; Frá vorri fæding hann, Fram oss sem faðir leiddi, Föðurlega tilreiddi Það sérhver þurfa vann.

2. Eins við oss orlát breyti Eilíf guðs ríkdóms hönd; Frið, heilsu, heill enn veiti Hún fyrir líf og önd! Þó framar þessu að Hér sína hegðun vandi, Í hlýðni trúr vel standi, Hver einn, guð géfi það!

3. Þér faðir! eilíf æra, Æðst lof og þökk sé tjeð, Og þínum syni' ástkæra, Anda guðdómsins með. Guð, sem varst, verður, ert! Blessa vort land, gef blíða Bót þeim, er rannir líða, Heill vor og hjástoð sért!

## No. 32.

Lagid: Á guð alleina.

Lof, eilíf æra, Alheims stýrir sé þér! Um ást einskæra Allt skapað vitni ber; O Guð alvísi! Allt þitt framleiddi boð; Þig alls auglýsi Orða, líf, fegurð, røð, Og þig einan prísi Öll sképnan sæl og glöð!

2. Þín gæðska gleður, Gæfu' og blessun tjer, Svalar og seður, Sífeldt viðheldur mér; Eg má eins nefna, O guð, þig föður minn; Föður-ást efna Æ reyniſt þú hvert sinn; Af þér alla gefna Andarkrapta eg finn.

3. Þú hýrgar, hressir, Hugsvalar, styrkir mig, Þó lífs kjör þessi Mér þyki erfiðlig, Aldrei eymd hrjáðan Mig yfirgéfur þú, En þrautum þjáðan Þín gleður mildin trú, Að til æru' og náða Eilífra búir nú.

4. Hvar hrekjast næ eg, Hjá mér þú jafnan ert, Hvergi horft fæ eg, Hvar þig ei sjái bert; Í hug hvarflandi Þú hulda þánka sjer, Aður minn andi Útklekur þeim í mér, Æ mitt allt ástandið Allstaðar ljóst er þér.

5. Hvort gætinn geymi Gæðskuríkt boðin þín, Eða gálaus gleymi, Því gæfa' og heill er mín, Þú grant aðgætir; Guðdóms vís-dómur þinn Mitt athvarf ætíð Er og trúr leiðtoginn; Best þinn kraptur bæti Blessaður veikleik minn!

6. Ef grandvar geymi, Guð! jafnan boð-in þín, Hérvist í heimi Heillasöm verður mín, Hættulaust héðan Heim til þín glaður fer, Lífs frest þá ljeðan Minn lætur þrjóta

hér, Fæ þig, faðir! sjeðan, Hvar farsæld eilíf er.

## No. 33.

Lagið: Guði lof skal önd min inna.

Hvar byrjar herrann blíði! Hvar endar þín grunnlausa náð? Hvað er, sem ei útþýði Augnamið þitt og vísdóms ráð? Sérhvers, er líf þú lénar, Líkn þín minnist ávallt, Og hvað hans þörfum þénar Þú sjer og géfur allt, Vort traust er á þér einum, O faðir himnum á! Hlífð þín nema hamli meinum, Hvað kann að standast þá?

## No. 34.

Lagið: Heiðrum vér guð af huga' og sál.

Guð drottinn! stór þín gæðskan er, Gløggt vitni jørð og himinn ber; Henni alls ekkert mann-vit má Maklegan prís og lofgjørð tjá; Þín ofanstreymir miskun mest Og mildi hvern dag til vor best, Sem um eilífð fær eingan brest.

2. Brauð fyrir daglegt þökk sé þér, Og það gott allt, hvers nutum vér; Þökk fyrir lands vors frið og fró, Frjóssemd jarðar og afla' úr sjó. Góði faðir! þig gøfgum vér,

Þig gøfga jörð' og himni ber, Sem øllum bjørg og blessun tjer.

## No. 35.

Lagið: Á guð alleina.

Guð mín ósk sína, O faðir! sendir þér, Þú veitst þörf mína, Því lífið gafstú mér, Í augsýn þinni, Opinbert gjørvallt er, Það mæðu minni Má valda' og gagni hér, Hvað mig hitta kynni, Til heilla verður mér.

2. Líf með líkama Leikur í hendi þér, Allan lífs ama Eg reyni gæfu mér; Þó mig þrant beygi, Þolleysis flý eg síð, Órór eg eigi Um alls nægt heldur bið, Þinn við skammt eg þegi, Þeim tek ánægður við.

3. Eg spyr ei hvelður, Um minna daga tal, Angrast ei heldur, Eg nær burt fara skal; Þú einn afmælir Æfitíð mína hér, Og einn farsælir Minn afgáng, heim þá fer; Hel þá holdið kælir, Hjálp og traust ertú mér.

## No. 36.

Lagið: Til þín heilagi herra guð!

Hátt prísi drottinn hver einn mann, Hans lofsaung allir vandi! Frjófgun jörðunni fær-

ir hann, Frid gefur voru landi, O gud, vor gud! vér þökkum þér, Þín miskun, vor gud eilíf er, Oss fordi' hún öllu grandi.

## No. 37.

Lagid: Gudi lof skal önd min inna.

Eilífi ástar fadir! Er alvaldur stjórnar himni' og jörd; Allt sem þitt ord skapadi, Allt heidrar þig med þakkargjörd; Forsjón vidfrægir þína, Fagnandi prísar þig; Skyldi' eg þá einn ei sýna Ást skaparans vid mig? O nei! önd minni' og huga Upplypti' eg, gud! til þín, Þína miskun máttuga Mikli raust þakklát mín.

2. Nærgætna nád mér tjádir, Nafn fyr enn lærdi' eg hjala þitt; Gagn mitt trúr efla gádir, Geymdir opt líf frá slisum mitt; Skammsýnn eg gjördi' ei grilla, Hvad gagnlegast mér var, Til andar og lífs heilla, Alskygna forsjónar Augad þitt æ vakandi Öll hepti meinin vond, Min geymdi vel vid grandi Guddómleg födur-hönd.

3. Eg þína, ástar fadir! Ánægdur blessun dag hvern sá; Á mér ávallt samadir, Ad eingan, sem þig treystir á, Og þér sig allan

hefur Afhent, þú skiljir við, Uppheldi gott því géfur, Gladværdir, heilsu, frið, Ástir einlægra vina, Opt fögnuð saklausan, Mér drottins milda ljenar Miskunar uppsprettan.

4. Það má ei reiknast reiði, Þó reyni böl og eymd vort géð; Oss faðir ljúfur leiðir, Likn sendir jafnan þrautum með, Alls gjørir góðan enda, Guðdóms vísdómur þinn; Ef þúngbær hrygð réð henda Og hrelldi anda minn, Þolgæði þitt orð kénndi, Þinn andi jók mér dug, Hjálpar von sálu sendi, Sem minn viðrétti hug.

5. Lífs á veðhlaupi hálu Heims þá ginningar tældu mig, Og viðnæm syndin sálu Svikið hafði á lasta stig, Svo sálar gagni' ei sætti, Sjálfum mér gleymdi' og þér; O guð! þú enn mín gættir, Ei vildir gleyma mér, Andar gagn mitt dýrt mattir, Mína samvitsku því Föðurraust fræddi, hvatti, Frelsaðist eg á ný.

6. Þakkar eg hef upp hljóminn, Hjartann til þín lypti' og önd; Æ! géf eg ávallt rómi Þér ærn og lof, að mér þín hönd Föðurleg gott allt gjørði, Guð! eg vegsama þig! Æ eg auðmjúkur virði Umsjá þína við mig;

Allt, sem þitt alvald stjórnar, Eins um himna sem láð, Fagnaðar lofsaung fórnar Föður-ást þinni' og náð!

## No. 38.

Lagið: Konúng Davíð, sem kénndi.

Þér, guð! eg þakkir segi, Þín náð er furð-anlig, Er frá fæðingardegi Forsorgað hef-ur mig, Og annast eins og nú; Mig skorti fot og fóður, Þá fæddist af lifi móður, Allt bættir þetta þú.

2. Eg lifi, er og hrærist, Eilífi guð! af þér, Án þín víst eg fortærist, Allur minn kraptur þver, Loptið er eignin þín, Af hverju eg dreg anda, Orka hann frá mér senda; Annars mín æfin dvín.

3. Þú átt og alla daga, Eins er og nóttin þín, Og allt hvað hér kann haga Heill-um sérhvers og min, Himinn, votn haf og jörð, Allt sem lífs anda hrærir, Allt vel forsorgar, nærir, Því ber þér þakkargjörð.

4. O! hvað örlátur herra Ertú við sér-hvern mann, Orða hlutanna hverra Hentug varð fyrir hann, Er sú óraskanleg; Sumt

hagar, sumt má græda, Sumt agar, allt kann fræda Og stoda einhvern veg.

5. Einginn rétt enn veit skýra Øllum tegundum frá Grænna grasa og dýra, Sem gagnast mønnum fá, Lof sé þér, drottinn dýr! Er þad skópst oss til handa, Og létst í skordum standa, Ur hverjum ekkert snýr.

6. Nyti' eg ei nádar þinnar Nákvænnu, fadir minn! Yrdi rás æfi minnar Endud sem draumurinn; Lif mitt lifir af þér; Láttu mig lof þér gjalda Og lifinn hjá þér halda, Medan eilífdin er!

## No. 39.

Lagid: J dag eitt blessad barnid er.

Skyld' eg míns guds ei gøfga nafn, Gædsku hans prísa mesta; Allt vottar hluta allra safn, Ad hann vill mér hid besta; Sannlega nád hans einskær er, Sem alla tíd vidheldur mér, Vid øllum háska hlífir, Og mig forsorgar fødurlig; Forgeingur allt og tælir mig, Ást guds ein ætíd blífur.

2. Þegar frá eilífd þekkti hann Þad minni velferd hagar; Ljós, krapt, gædsku og líf eg fann Af líku hans alla daga; Hans fødur-

ást annadist mig, Adur enn lifs eg komst á stig, A minni vegferd veitir Allt sem hér vidþarf velferd min; Veltur, forgeingur allt og dvin, Ást guds ein aldrei breytist.

3. Vid elskad barn sitt breytist géd Blídlundads fødurs eigi, Þó gjálíft fái gánga sjed Gæfu þad út af vegi; Eins fæ eg reynt þitt fødur-þel Fara i øllu med mig vel, Elska, þá aga sendir, Ei hirta' i reidi' og hatur tjá; Hverfult er allt og bregdast má, Ást guds ein stødug stendur.

4. Þó tárin væti hvarma heit, Hørmúngar þegar mæda, Aga þinn ást eg vera veit, Von sú má huggun glæda; Frá þrældómsfullum synda sid, Sem eg gjálifur undi vid, Med þrautum mig vilt hrífa, Aptur til þinna ásta' á ný; Allt bregdst og þrýtur heimi i, Ást guds þó ein mun blifa.

5. Eingin heims þjáning eilifd nær, Afkomund lifs er mæda; Af þeirri vissu ønd min fær Efling og styrk þolgæda, Þá vetrar hretid þrýtur stridt, Þar eptir kémur sumar blidt, Hverfur eins hrygdin senda; Í føgnud sorg øll sidar snýst, Svipult er allt og þrýtur víst, Ást guds varir án enda.

6. Af gædsku einni géfur mér, Gud óumbreytanlegi! Eins sorg og gledi', eg fyrir þér Mig audmjúkt nidurbeygi; O fadir! géf mér anda þinn, Ad ástundi eg kostgæfinn Þér ad þókknast og hlýda, Uns reynslu tímann út hef strídt, Og andlit þitt fæ skoda blídt, Og allt bregdst annad sídast.

## No. 40.

Lagid: Jesú! þínar opnu undir.

Heimsins stýrir forsjón fasta Fyrir hverri sképnu ber. Til vþls og efa hver vill hasta? Heyrast skal ei spurt af mér: Hvadan snaudum bjørg ad berst? Bitri naud eg hvernig verst? Heiti Krists sá hyggst ad bera, Hugsjúkur má ekki vera.

2. Lífs á-hyggju, minn gud! mína Og mig eg fel í hendur þér, Ørguggur vid umsjá þína, Er eg farsæll þar og hér. Eilíf speki' er allt þitt rád, Øll þín breytni gædska' og nád; Eg ei þekki hvad best hagar, Hond þín allt til góds mér lagar.

3. Vørn um mig nær veit eg þína, Vel fyrir øllu borgid er; Óró skal mig eingin pína, Ørugg forsjón þín sem 'ver. Ovild,

hætta ekki nein Orkar mér ad vinna mein, Sjálfur daudinn síst mér grandar, Sællra guds á milli handa.

## No. 41.

Lagid: Til þin heilagi herra gud!

Pvi spyr hugsýkin hvar mér sé Hønd, er atvinnu tæri? Veiti brand, klædi, hús og hlé? Hér sem eg gjørdur væri Volædis einn ad þola þrá, Pvilikt sem gud, mér vikinn frá, Fødurs ei forsjón bæri!

2. Vallanna blómstur vird fyrir þér, Vinna þau ei né spinna; Pó týnir kónga sóminn sér, Samliktur skrauti hinna; Hver óf þeim føt og lénti lit, Hvern laungum undrast mannlegt vit, Sem orkar miklu minna?

3. Ef gud skrýdir svo eitt gras-strá, Er fáir virda' og nýta, Pad í dag blómgast eingi á, A morgun færdu' ei lita; Hvert mun hann sídur sinni mynd. Sjá fyrir, og ei þér, mannkind! Naudstaddri bjørg útbýta?

4. Svo viss sem minni ondu er Eilífur sælu stadur, Og minn líkami einnig hér Upprisi forkláradur, Eins víst framfæri eg skal þá Af gudi medan lífi fá; Hann er og hér minn fadir.

5. Svo skal þá hrædsl' og efa eg Aldrei láta mig pína; Mér um næringar mældan veg Minn gud vill nád audsýna, Þad góda, sem eg girnist fá Gefur, því vill mér hjálpa sá Og velferd efla mína.

6. Oss aumа, drottinn álít nú, Aumka þig, Jesú fadir! Vorn kvída og ángist þekk-ir þú, Þá verdum burtskúfadir Af veroldinni, veit mér þá Vald þitt, forsjón og gædsku sjá, Í trú svo gjørumst gladir!

## No. 42.

Lagid: Hver sem ad reisir hæga byggd.

Mín gæfa byggd á guds nád er, Getur því brugdist eigi, Í míns skapara umsjón mér Af øllum hug því fleygi, Hans eru jørd og himininn, Hann mun sem gud og fadir minn Mér hjálpa' á hverjum degi.

2. Hann sá frá eilífd hversu stór Heppni mér duga skyldi, Líf mitt, armæda' og lukka fór Líkt sem hann skamta vildi; Hvad syrgir þú þá, sál mín kær? Sigur í øllu trúin fær, Mér sem guds sendir mildi.

3. Hann veit þørf mína' og hefur rád, Úr henni líka' ad bæta, Fyr enn eg beiddi

fann eg náð, Og fekk hans visdóms gæta; Forsorgar mig sá faðir hér, Framvegis hulin guðs á mér Velþóknan verði mæta!

4. Hvert mun sú stóra heppni manns, Hérvistar jöfn á dögum, Betri enn mæðu hlutdeild hans, Hverri þó yfir kløgum? Andlát guðs-barna endar neyð, Eptir þessum vegsemdin beið, Með allskyns heilla högum.

5. Hvað oss farsælir heimi í, Og helst má gæfu kalla, Gefa mun drottinn gnægð af því, Glis heims og sæld gjörvalla Sálunni gæfa eingin er, En góð samvitska léttir þér Ok hvert, sem á vill falla.

6. Hvað er veraldar heiður stór Hennar skammvinnur sonum? Hvað er andstreymis ólgu-sjór, Opt lægður fyr enn vonum? Fulltreystið drottni allir enn, Annast guðhrædda vill hann menn, Líku veitir ljúfum þjónum.

## No. 43.

Lagið: Mitt hjarta hvar til hryggist þú.

Sál mín! hvað geingur svo að þér? Sút og kvíða því vekja fer Örbirgð er ama kann? Minnstu guð þér ætíð ann, Orð hans stunda, reið þig á hann.

2. Mikill hann æ og alvís er, Allt hvad hann skóp ljóst vitni ber Um fødur forsjón þá, Er mannskepnum likn vill ljá, Lita vorar þarfirnar á.

3. Hvers vid andvørpun hann kvad nei? Hver af þeim góda leiddist ei, Sem fadir barn sitt ber? Af honum þyggjum ójafnt vér, Allir þó hvad gagnlegast er.

4. Riki, máttur og mildin þín, Minn gud! sem heyrir andvørp min, Er søm og ádur, því Hún kynslód frá kyni ný Kroptug skín øllum heiminum í.

5. Rikur þó treysti rikdóm á, J riki daudra gista má, Riki guds kaupa' ei kann. Elska mig, fadir! fátækan, Fadmi gullid hver sem því ann.

6. Því sá þú elskar ædri er Enn gull og eigur metast hér, Þin blessan þess er manns Yndi, heill og audur hans, Einnig von til sælunnar ranns.

7. Fyrir þitt guddóms eilift ord, Er þessa huggun gaf á jørd, Þér, Jesú! þøkkum vér, Efli þad oss ætid hér, Umsjón guds ad treysta, sem ber.

## No. 44.

Lagid: Hjartad, þánkar, hugur, sinni.

Hvad viltú svo kveina' og klaga Kjor út-skipt þér, sála mín; Því med sorgum svo þig naga? Sjá, þinn gud vill heillir þín; Eg í gudi gladur er, Gud! mín sál fulltreyst-ir þér, Ollu' er reyni' eg viltú venda Til vegsamlegs og farsæls enda.

Hann mig aldrei yfirgéfur Á hormínga vondu tíd; Allt því, fadir! athvarf hefur Ond mín til þín fyr og síd; Hver ógn sem ad hondum ber, Hugur skal ei fallast mér. Guds forsjónar fæ eg skoda Frelsi' og líkn í ollum voda.

3. Hverja neyd, sem hlýt eg lída, Hann vill aldrei gleyma mér, Af því mun eg eingu kvída, Ef misskiptir lukkan sér; Stund þá reynslu úti er, Aptur líkn hann sendir mér; Heims því orkar ekki' ad farga Ossi' og slægd, þá gud vill bjarga.

4. Ovina her ef ad mér drífur, Trugg er þó gud mín borg, Umsjá hans mér ætíd hlífir, Allri frelsar mig af sorg, Já, þó gjorvoll móti mér Magt og voldin fylki sér, Ekkért gégn mér orku nýtur, Allt guds vilja lúta hlýtur.

5. I Jesú nafni eg læt mér lynda Lán sem drottinn skiptir mér, Blídt hvert edur bágt vill senda, Til blessunar þad ávallt er, I sorg og gledi sýnir hann Sig ástvininn trúfastan; Einginn vard sá enn til smánar, A hans hjálp er stødugt vonar.

6. Vil eg, gud! á vald þitt géfa Veikan mig og gjorvallt rád; Lát mig heldur aldrei efa Ast margreynda þína' og nád; Hvad sem gud minn! þókknast þér, Pad er víst allt heilnæmt mér; Forsjón vís, eg vid þad kannast, Vill mig fødurlega annast.

## No. 45.

Lagid: Jesús Kristur ad Jórdan kom.

Aldrei, min sál! ørvæntú hér, Pó yfirdynji þrautir, Guds forsjón mild ei gleymir mér, Pó gángi' eg þyrni-brautir. Pér greidist vegsemd ætt frá ætt, Alheims verndarinn gódi! Alla líku fyrir æ ágætt Øll jørdin lof þér bjódi; Ansi þvi himnar hljódi!

## 4. Endurlausn vegna Jesú.

---

### No. 46.

Lagid: Í dag eitt blessad barnid er.

Upp! ad samsýngja eingla róm: Æra sé gudi á hædum! Frelsud jørd med fagnadar hljóm Færi pris í lofkvædum, Þvi Jesús, lif sem lét á kross, Lif og sáluhjálp færdi oss, Heims follnu ættum øllum; Flýi sorg, ótti, flýi þrá, Þvi fékk hans vegna þókknun á Gud vor þjódum gjørvøllum.

2. Dómarinn vard vor vinur, þvi Vor ótti' í gledi breytist; O hvilík heill, nær himni í Honum pris af oss veitist! Þú, hvers fæding oss blessun bar, Og blessadur daudi einnig var, Hátignar himins vída Asamt fødurnum átt nú ráð, Æ minnstu vor í likn og náð, Jesú! lausnarinn lýda.

### No. 47.

Lagid: Kom skapari heilagi andi.

Gud leit allt hvad hann gjørdi, sjá! Gott hann þad allt og veglegt fann, Guds þad dásemdum greindi frá, Gædsku, magt, speki lýsa vann.

2. Almættis gaf hann ordi med Ollu skøp-udn fjør og lif; Styrk, føgnud', nægtum fylla réd Forsjón vis, máttug, góð, eilif.

3. Um alla himna hvellur kór, Hátt þá einglanna lofgjörd kvad; Vald drottins mildi' og vitska er stór, Verkid skøpunar birtir þad.

4. A manninum hér mátti sjá Mest af øllu guds dásemd þó, Hans eigin mynd bar sjálfur sá, I sál heilagri vitska bjó!

5. En þessi skepna', er allt fekk gott, I reynslu veik þó falla vann; Synd, eymd og dauda sjáum vott Sorglegan um breiskleika þann.

6. Lof sé þér, gud! sem líknsemd í Leitst til veraldar ofan þá, Med Jesú hlaut hún heill á ný, Hann þegar birtist jordu á.

7. Hann, ljós veraldar, heill og rád, Hing-ad kom guds ád boda frid, Leid svo þolgód-ur hrygd og hád, Hlýdinn til dauda fødurinn vid.

8. Nú syngur eingla helgur her Hátt lof, vor gud er stór og vis! Já allir frelstir ját-um vér: Jesú, um eilifd sé þér pris!

## No. 48.

Lagid: I dag eitt blessad barnid er.

I nafni Jesú athøfn má Øll vor stofnast

á jordu; Gagn og heidur ef efla á, Ei tjóni ad valda hordu. Allt sem þannig uppbyrjad er, Allt til góds horfa reynum vér, Og heilla takmark hljóta: Gud einn ad prísi verk øll vor, Velferdar til hvert gaungum spor, A ondu' og lífi ad njóta.

2. Í nafni Jesú, eins og band Oss Jesús, vér ákøllum Vonhranstir drottins nafn í naud, Nád prísum guds á øllum. Hvad hann skipadi strax svo stód, Sterkur, vís, mildur vor er gud, Honum jord, himnar hlýda. Allt vel því heppnast mønnum má, Miskunsemd hans sem treysta á Og fødur forsjón blída.

3. Í nafni Jesú ondumst vér, Í nafni hans hér þreyjum, Hans ord í lífi ljós vort er, Lind huggunar þá deyjum. Af grøf oss vekja vill med raust Voldugri, þar á setjum traust, Hjá sér til lífs innleida. Med eingla-roddu þér skal þá, Þinn, Jesú! lýdur himnum á Lof endurleystur greida.

No. 49.

Lagid: Þann heilaga kross vor herra bar.

Einum gudi sé æra' og dýrd, Er sinn son

sendi hingað á jörð; Hann stýri' og stjórni' oss öllum saman, Svo vér hann óttumst og elskum Amen!

## No. 50.

Lagið: Á þig alleina Jesú Krist!

Á þig, ó herra Jesú Krist'! Eg set von mína' í heimi; Þú elskar mig, það á eg víst, Orð þín veit mér eg geymi. Af himni til vor ofan stést, Og kénndir, leiðst, huggaðir best, Blíð trygð þín eymda bætti kíf, Blessaðri hlíf Þinni því fel eg önd og líf.

2. Mín synd er þúng, eg af því finn Angist og hugar pínu, Voladra þú ert vinurinn, Veit svölun hjarta mínu! Mín sála traust þig setur á, Mig synda leystir böli frá, En heimsins slægðum varar við, Mér veitir lið, Í freistni' og géfur andar-frið.

3. Efl mig, lausnari! ætíð þér Til æru lífið vanda, Ástverk það muna' og mikla hér, Að mig leystir þér til handa; Fúslega, Jesú! feta þinn Feril, náúngann elska minn, Uns skipun fæ eg skiljast við Skamtað lífs mið, Eilífa sæln erfi' og frið.

4. Heiðrum því guð á himna-trón, Hæstan föður alls góða, Og Jesúm Krist hans

sæla son, Sem leiddi oss úr voda; Helgan anda, sem huggar ond, Hord villumyrkra leysir bond, En trúar gladt upptendrar ljós, Til þess ad oss Audnast á himnum ædra hnoss.

## No. 51.

Lagid: Margt er manna bølid.

Oss géf, Jesú! ollum, Ad frá þér ei føllum, Frid svo fáum vér; Þú gafst frelsid þida, Þeim frá dróma strida, Synd i setti' oss hér. Holdsins magt, Heimsins pragt, Ei skal binda Oss i syndum, Allir þér tilheyrum.

## No. 52.

Lagid: Guds son kallar: komid til min!

Allt á, sá Jesúm ástvin á, Audveldlega kann skilja sá Vid heim og heimsins gædi; Hver Jesúm ástvin á, þess géd, Anægt sins guds rádstøfun med, Huggun fann, hrygd þó mædi.

2. Hver Jesúm ástvin á, sá kann, Ohult lifa, ei hrædist hann Fors heims né flærdar snorur; Ef syndin skélfir sáln min, Og synda straff, mig, Jesú! þin Vernd trúføst ver óførum.

3. Þegar eg hefi þig ad eins, Þá er eg bættur sérhvers meins, I neyd og deyd ei efast, Öruggur stend í allri neyd, Og geing fagnandi móti deyd; Allt bol þú einn fær sefad.

## No. 53.

Lagid: Gædskurikasti grædari minn.

O gud! þá heimar hrapa' í grunn, Hefur upp kvøl og dóms ógunn, Frek ódygd fer veinandi. Huggladur eg vid heima fall Þig herra Jesú! skoda skal, Lausnara minn lifandi. Æ hér, Unn mér Þér ad hlýda, Þá ei kvída Þarf vid dómi, Fagnandi sýng eg: Sæll hann komi.

## No. 54.

Lagid: Nú kom heidinna hjálpar rád.

Jeg gledst af því eg Jesúm á, Hvad jafnást má vid gledi þá? Hún í raunum hugsvalar hér, Hagsæld velgeingnis eykur mér.

2. Jeg gledst af því eg Jesúm á, Jeg veit hann pindist krossi á Mín vegna, hans ef held eg bod Hlíf er gud min og ørugg stod.

3. Jeg gledst af því eg Jesúm á, Jeg stendst því heimsins svikrád flá, Fors heims

ei unnid fær mér svig, Fullhuga gjörir Jes-
ús mig.

4. Jeg gledst af því eg Jesúm á, Jeg vil sál' mína hvetja þá, Ad þreyta fús hinn þraungva stig, Því hann ei yfirgefur mig.

5. Jeg gledst af því eg Jesúm á, Jafnvel ei daudann skélfist sjá, Hann því vidbúinn hittir mig; Heimför mín verdur fridsamlig.

6. Jeg gledst af því eg Jesúm á, Jeg mun til hans í hædir ná, Þar hann er, vera honum med, Í himna sælu fá hann sjed.

7. Já, eg gledst í þér, Jesú minn! Jeg vil trúr geyma lærdóm þinn; Mín gledi, lífgjöf góð ertú; Gøfgan mín hljómi', um eilífd sú!

## No. 55.

Lagid: Koníng Davíd sem kenndi.

Son guds ertú med sanni, Sonur guds Jesú minn! Son guds syndugum manni Sonar arf skeinktir þinn, Son guds einn eingetinn. Syni guds sýngi gladur Sérhver lifandi madur Heidur í hvert eitt sinn!

## 5. Jesú fæding.

---

### No. 56.

Lagid: I dag eitt blessad barnid er.

Med gledi-raust og helgum hljóm, Þig herra Jesú Kristi! Heidri fagnandi' og hvellum róm Hópur þinn endurleysti! Ur himna dýrd þú ofan stést A jord til vor, því súnginn best Sé þinu nafni sóminn! Þad von og fognud gódan gaf, Gjorvallt mannkynid syndum af Ad frelsa ertú kominn.

2. Sannleiksins gud þig sendi oss; I svortum myrkra ranni Vitskunnar gladt geisladi ljós, Þú gjørdir sollnum manni Blídur kénna ad þekkja þann, Þig er oss sendi frelsarann, Heiminn vid hann forlíka, Dygd heilog kénning heimtar þín, Héidur því sýngi túngan mín Þér fyrir nád þvílíka.

3. Einskærust dygd var allt þitt líf, En þínn, Jesú! gédi, Oss ad bjarga og eymda kíf Ad aumka, sonn var gledi; Ohuggadan þú eingan létst, Ollum því líkna vannstú best, Fótsporum fylgdu þínum, Sorga léttir og nádar nægd, Nú skjótt vantrúin hvarf, en hægd Veittir þú veikra pínum.

4. Þíns föðurs vilja framkvæmd með Fullnustu gjørðir hlýðinn; Bót og frelsi er fyrir skéð Fráhorfna Adams lýðinn; Syndanna þúngu sektum frá Eg síðan kvittum vænta má, Að sigraðir dapran dauða; Hátignar því á himnum er Hnoss eilíft geymt og búið mér, Frelstum af fári nauða.

5. Með gleði raust og helgum hljóm, Þig herra Jesú Kristi! Heiðri fagnandi' og hvellum róm Hópur þinn endurleysti! Í himna dýrð upp aptur stést Af jörð, en oss þín náðin best Yfirgéfur aldreji; Honum, sem vald og heiður ber, Hallelúja! lofsýngjum vér, Öll kné sig auðmjúk hnegi!

## No. 57.

Með sínu lagi.

Mildi Jesú! sem manndóm tókst Í Maríu jómfrúr kviði, Þar með heill og hjálpræði jókst Hverjum sem á þig trydi; Þú sást vora' eymd og andartjón, Öllum var búin skömm og smán, Angistar kvöl og kvíði.

2. Yfir oss virðtist aumka þig, Ei kunnir það umlíða, Að villu geingjum áfram stig, Ei vildum guði hlýða; Af himnum komst í

heim til vor, Hófst oss því lausu og fridur stór, Fyrir þinn dýrstan dauda.

3. Og þú hefur oss øllum sagt, A þig skyldum vér treysta; Offur þitt, hlýdni, ást og magt, Af syndum hefur oss leysta, Eflaust því setjum á þig trú, Allt þad gott, sem oss lofadir þú, Aldrei kann oss ad bresta.

4. Vor bródir kær þú ordinn ert, Ætíd vilt hjá oss byggja, Vernd og adstod oss veitir bert, Vér viljum hjálp þína þyggja. Þad er oss gagn og gledi stór, Guds son ordinn er bródir vor; Hvad má oss sídan hryggja?

5. Heidrum og lofum herrann vorn, Hann einn oss endurleysti; Vér erum med þér blessnd børn, Bródir vor Jesú Kristi! Gledji oss jafnan gáfa sú, Gudi þøkkum hans ást og trú, Líknsaman sig auglýsti.

## No. 58.

Lagid: I dag eitt blessad barnid er.

Frá synd og deyd svo frelstumst vér, Fagnadar syngjum hljómi: Frelsarinn i heim fæddur er, Þann fognnd verold rómi! Jord syndug himins fékk nú frid, Fullsæla eilífd gledst

því við, Jesús þá von oss veitir; Vort líf nú reiknast reynslustand, Rétta himininn föð-urland; Upp þángað allir leiti!

## No. 59.

Lagið: Rís upp, mín sál! að nýu nú.

Upp! upp! á herrans hátíð nú, Og hátíð-lega þig tilbú, Að guðs auðmjúkur lýsa! Kærleika með, Kann þakklátt geð, Kærleik-ans guð að prísa.

2. Segðu með bljúgu sinni fyrst: Svo elskaði mannkynið víst Guð vor, að son út-sendi. O, gæðsku hnoss! Guð elskar oss, Geymir með föður hendi.

3. Vor elskulegi vinur sá, Vort hold og mynd sig tók uppá, Stoddunn í stórum voða, Guðs vitsku, ráð, Gæðsku og náð, Gaf oss þar með að skoða.

4. Hann er þín heill! tak hlutdeild þú, Hennar með sannri bót og trú, Í hans nafni' á hverjum degi, Ei dýrkar hann, Sá hrópa vann: Herra! en betrast eigi.

5. Eg vil þakklátur iðka mig, Að sýna rétta trú á þig, Hughreysta, hjálpa, seðja,

Hjørtu guðhrædd, Af ángri mædd, Í þinn nafni gleðja.

6. Ráð! kraptur! hetja! allt af þér, Er það himinn og jørðin ber, Það allt þér þakkir seigi, Øll kristin þjóð, Þig prísi glød; Þér øll kné þakklát hnegi!

7. Vegsamið guð! hann hjálpar fús; Huggun náðþyrstum er Jesús. Allir hans endurleystir! Hátt prísið hann, Vorn hjálpar-mann, Hans miskun glaðir treystið.

## No. 60.

Lagið: Guðs son kallar: komið til mín!

Upp! gleðjist allir, gleðjist nú! Gleði uppfylli brjóst vor sú, Guðs ást vorn føgnuð glæði! Því Jesús, heill vor, hann er nær, Hans ást á oss hún er frábær, Hann vorn holdi klæðist.

2. Burt sorg! ei meir vor hjørtu hrell, Himnesk kæti þau upp nú fyll, Að Jesú fagnað fáum, Með auðmýkt, bæn, þøkk, ást og trú, Eilíf hugguuin vor er sú, Sem af hans náð vér náum.

3. Þinn friður, guð! sem æðri er, Enn allt hvað þekkjum, skynjum vér, Vor hjørtu'

og hugskot geymi Í Jesú þekking', uns hjá þér, Eilífrar gledi höldum vér Hátíd i betra heimi!

## No. 61.

Lagid: Jesú! þínar opnu undir.

Dýrd sé gudi' í hæstum hædum! Himinn sýngur fögrum hljóm, Mannkyn hrært i innstu ædum, Undir tak med lofsaungs róm! Allt guds speki, miskun, mátt, Mikli, gøfgi, prísi hátt! Dýrd sé gudi' í hæstum hædum! Hrósi jørd hans ástar gædum.

2. Ef þú ekki undrast, madur! Og ástar drottins vermist il, Né audmjúkur gjørist gladur, Guds svo elsku finnur til; Hversu máttu' hans mildi þá, Maklegt þakkar offur tjá, Og med eingla lofsaung lýsa Líkn vors drottins, þakka, prísa?

3. Dýrd, allsherjar drottinn! þína, Í dupti flatur eg tilbid; Ást þína og eymdir mínar Audmjúkur eg kannast vid; Hvad var eg? þú miskun mér, Minn gud! gafst, fráhorfnum þér, Eigi syni þyrmdir þínum, Ad frísir mig frá andar pínum.

4. Allt mitt dagfar yfirlýsi, Ad eg sé þeim hrærdur af Undrum nádar, allt þá

prísi Ást, er son þinn heimi gaf, Sú í hlýðni helgi mig, Hans svo feti' eg dygða stig! Lof, tilbeiðsla' og þökkin þíða, Þessi sé mín hér og síðar!

5. Dýrð sé guði' í hæstum hæðum, Hver sinn son gaf follnum mér! Mannkyn hrært í innstu "æðum Aldrei gleym því veitti' hann þér! Almátt, speki' og elsku þá, Allt mitt líf víðfrægja má, Uns eg guði' á himna hæðum Hef upp lof með eingla kvæðum.

## No. 62.

Lagið: Ofan af himnum hér kom eg.

Allir samsýngi eingla=hirð, Í upphæðum sé guði dýrð, Sem nú lét jörðu fallna fá Frið, hefur mönnum þóknun á.

## No. 63.

Lagið: Sólin upprunnin er.

Gleðji sig gjörvöll jörð Í guði sínum! Fagna guðs friðkeypt hjörð Frelsara þínum! Hvers fæðing þér Full náð himnesk bodast; Þygg, tilbið, þakka í trú Þessa guðs ástgjöf nú, Skyldu þín skoða.

2. Sem fánginn frelsi gleðst, Þann fjötur

reira, Leystur til lífs þá kvedst, Lausn fær ad heyra; Eins fagna þú Frelsi og lífgjöf dýrri! Gud synd uppgéfur þér, Gud þig umvefur hér Nád födurs nýrri.

3. Sá fæddist, fús sem leid Forsmán, bönd, pínu, Frásnúid fólk med deyd Frelsadi sínum, Honum lofgjörd Hans kristni vanda ætti; Hann færdi oss frid vid gud, Frid vid vor hjörtu med, Því brot vor bætti.

4. Sýng, leik med hjarta' og hug Hans prís, og fagna, Um hans stór alvöldug Ast-verk ei þagna, Þín hegdan öll Hans þjón þig æ auglýsi; Síst heimur hold' og blód, Þér haldi' á glæpa slód, Helg hlýdni' hann prísi.

5. Hvert gagn þræl þrjótskum telst Ad þyggja frelsi, Ódæll ef aptur selst Anandar helsi? Hvad notar þér, Nád fyrir Krist ad þyggur, Ef saungmum enn nú blind Yfir þér drottnar synd, Og í löstum liggur.

6. Fulltreyst hans fridargjörd, En fjötr-um lasta, Fyrir hans efldur ord, Öllum burtkasta, Sá ok hans ber, Ok sinna synda-brýtur, Harmar og hatar brot, Helgadur ei-líf not Hans frelsis hlýtur.

## No. 64.

Lagið: Hver sem ljúfan guð lætur ráða.

Kristnir menn! umfram allar tíðir, Er þessi tíð oss gleðileg. Hverfi ángistar kvein og kvíði! Hver Kristinn elskar gleðji sig. Hann best sem manna bætti ráð, Borinn er nú af föðurs náð.

2. Vort hjálpráð guðs son vera fýsti, Til vor ofan af himnum sté, Með hegðun oss og lærdóm lýsti; Leið píslarvættis dauða' á tré; Hann uppreis og til himna sté, himna vegur svo greiddur sé.

3. Frelsari'! ástverkum frægstu þínum, Með fégins rómi lýsum vér; En veit oss styrk, svo alúð sýnum Í dygð og trú til heiðurs þér; Í útvaldra flokki' um eilífð þá, Æðst lof þér sýngjum himnum á.

## No. 65.

Lagið: Frelsarinn er oss fæddur nú.

Föllum nú til fóta Krists, Sem fæddist oss til lausnar vist; Fékk oss á himnum frið og vist; Sýngi hans hjörð Honum lof og dýrð og þakkargjörð!

## No. 66.

Lagid: Ris upp, min sál! og bregd nú blundi.

Í heim til vor frelsarinn fæddist! Fagni hans endurleysta hjord! Straff hins alvalda', er hold allt hræddist, Horfid er, fridi lýst á jord; Guds sonar frelsi gledjumst í, Gud er vor fadir uppá ný.

2. Oss! sem ad rettinn barna brutum, Brast adgáng ad hans ást og nád; En sekta gjoldin óttast hlutum, Eilif, því bod guds hofdum smád; Oss nú frelsarinn fæddur er, Frid, lausn og sælu hrepptum vér.

3. Upp! upp! min sál! þygg ástgjof þessa, Audmjúk, fagnandi tilbid hann; „Ordid vard hold,“ ad bjarga og blessa Barn sitt lét gud oss fædast mann; Vikna mitt hjarta vid þá nád, Voldugur gud þér hefur tjád.

4. Frá allri synd, hann fólk sitt hefur Frelsad og keypt til eignar sér; Hann lyst og krapt til góds því gefur, Gæt vel! finnur þú slikt hjá þér? Blómga med dygdum breytni þín, Blessad hans dæmi af þeim skin!

5. Af því fagna ad er nú fæddur Endurlausnarinn syndarans; Þó veikur sért, samt vertu' óhræddur, Vel mun þig styrkja kraptur

hans! Guds sonar frelsi gled þig i, Gud er þinn fadir uppá ný.

## No. 67.

Lagid: Gud miskuni nú ollum oss.

I trú undrandi' eg tilbid þá Trúfesti' og speki þína, Er fær, ó gud! min sál ad sjá, Vid sonar þíns holdgun skína; Þín loford hafa eids krapt oll, Eingin hindran þau tefur, O! hvad þín speki furdufull Og forsjón allt umvefur, Takmarkad hvad eitt hefur.

2. Jeg má víknadur játa þad: Jeg hef reynt forsjá þína, Gud! þitt auga mér gætti ad, Um gjorvalla æfi mína. Hver leiddi mig í lífid inn? Lét víss kjor opin standa, Hvar ótal gæda gnótt eg finn? Hver greiddi mér til handa Veg gégnum margan vanda?

3. Fadir! trúfesti' og forsjá þín, Framar eg vid þad kannast; Fyr enn eg til var minntist min, Mig hefur sídan annast; Mér valdi bædi stund og stad, Og stand, er hentast væri; Min gledi sé ígrunda þad, Gud! svo þér þakkir færi Af allri ond, sem bæri.

4. Þín trygd og speki' er skært mér skín, Þá skoda' eg kjor þíns sonar, Sé einka hlífd

og adstod mín, Akkéri minnar vonar; Þín forsjón vís, er hélt sín heit, Hann gaf til frelsis manna, Mér til hjálpráds æ medöl veit, Mína naudsyn vill annast, Björg þá af veröld bannast.

No. 68.

Lagid: I dag eitt blessad barnid er.

O vor herra Jesú Krist! Oss í manndóm borinn, Þú hefur allan lýd þinn leyst, Til lífsins ádur kjörinn; Opna vor hjörtu, Ad vér nú Ord þín geymum med réttri trú, Hvar med hér á jördu, Endurfæddir eignumst vér Arf himna med sjálfum þér, Og blessud börn þín verdum.

## 6. Jesú pína og daudi.

No. 69.

Lagid: Adams barn! synd þín svo var stór.

Reyn hjarta mitt, ransaka mig, Réttláti gud! eg kém fyrir þig, Sjá hvort eg heils er hugar! Nær hugsa' um Jesú hjartans

kvol, Heita elsku og písla bol, Sút klokkva sálu bugar; Hans þjáning oll mín heilsa er; Hvílíka nádar dásemd hér, Virdtist þú verøld sýna! Hvenær hef eg nóg hugleidt þad? Hvenær best sem gat vegsamad, Af allri sál' elsku þína!

2. Fridar=hofdíngi, hetja, rád Hins hæsta, kraptur af guds nád, Hér klæddist holdi' og blódi; Fórn synda, Jesú! verda vannst, Værd á saklausri sál' ei fannst, Af kvala feikna flódi; Þinn vinur svikrád veita fer, Vopnadan skara senn ad ber, Hormúnga hefst upp tími, Kvalanna ofbod þreyngdi' ad þér, Þú hrópar: „guð! ef mogulegt er, Bikar sá burtu rými."

3. Líkt dropum blóds af dundi þinn Dýr sveiti, Jesú! máttfarinn, Til jardar þér flotum fleygir; Þú son hins hæsta bljúgur berst, Bæn þinni vid, þá kvøl þú skérst, Opt gjordri þinn gud þegir, Jafnvel i stridi styrktan þig Stórkostleg kvol og skélfilig Ogu þó og ángist mædir; Sekt manna hlódst þig sjálfur á, I syndugra hendur gafst þig þá Gédhraustu med þolgædi.

4. Þú, guds réttláti, og sanni son! Sjálfur

barst illvirkjanna laun, Saklaus og saunhei-lagur; Svo var því fyrri fyrir spáð, Fram-kom nú drottins hjálpar ráð, Vor friðar og frelsis dagur! Illþýðið þyrsti í þitt blóð, Ofs-ann þín hógværð af sér stóð, Svo frelsast sálir kynnu; Jeg þinn leysingja játa mig, Jesú! því allra synd á þig Hlóð guð, svo frið vér finnum.

5. Að þræls mynd þú andvirðist hér, En æðstu dygða skart þó ber Ætíð þitt ástar-hjarta; Þolir svo hatur, háð og smán, Horm-úngum, eymdum fullur, rán Matst ekki mynd guðs bjarta; Þig, sem guð hét oss sáum vér, En samt ekkert oss þekkt á þér, Ei mynd né fegurð fríða, Fyrir þér, eilíft athvarf mitt! Andlit þeir jafnvel byrgja sitt; Sátt-máls born sjálf þig níða.

6. Offur varst, sem guðs eilíft ráð Alykt-að hafði, en af náð Vildir þú vægð oss sýna; Fyrir misgjörðir fólksins þíns, Fyrir sekt brotlegs manna kyns, Þín var þjáning og pína; Akærður saklaus eingu hér Ansar, en sjálfur kross þinn ber, Sem lamb er bana bíður; Fús eins og hugprúð hetja bar Hels

neyð, sem oss maklegust var; Ást hans fyrir auma líður.

7. „Eg mátti telja mín öll bein, Mínar „hendur þeir hafa' með flein Og fætur gégn- „um grafið; Feitir umkringdu urar mig; „Ómildra hópur gladdi sig, Sína vild sjeð „að hafi; Eg hrópa, en mín hjálp er fjær; „Þeir hæða mig: sé hann guði kær, Hann „klagi, hjálp mun koma! Maðkur eg, ekki „maður, er nú, Mig í dauðans dupt leggur „þú, Spott lýðsins, spé manna.

8. „Bráð kvalarans eg orðinn er, Eg „hrópa, þú ei svarar mér, Mig yfirgéfa all- „ir, Þjakaðan sár þá þorstinn skær, Þeirra „veitt svölun eintóm var Beiskt edik bland- „að galli, Sem var mitt hjarta' er sundur „smelt, Svo sem vatni er mér úthellt, Mín „ángist er þeim gleði; Því yfirgafstu þjón- „inn þinn, Þrautmæddan, ó guð minn! „guð minn! Af andar þúngu' erfiði?

9. Þú hneigir niður höfði þín, Hrópar fullkomna borgun mín! Þú deyr, jörð dopur titrar; Erfiði hef eg aukið þér, Ó! drottinn! hrædda sál' það skér, Um písl þína' eg þeinki bitra; Hvað er eg, frelsi' að fékkstu mér?

Æ feingi' eg allur þakkad þér, Sjá, drottinn! vægd mér sekum! Afýsa skal þin ástin mig Ad unna þér, svo aldrei þig Særi med synd-um frekum.

10. Örvænting sælu' um eilifd má Alla sárlega hrella þá, Er forsmá forþénun þina; Þeim ekki stunda' í ást og trú, Ástgjof þvi-lika' ad virda nú, Til þýngra dóms þin er pina; Synda þjónum er sifeldt þig Med syndum smána', en játa sig Forþénun þinni treysta; Hver ord þin smáir, elskar sist, Hver ei þig elskar dæmist víst, Kvol þin hann kann ei hreysta.

11. Þú hefur heitid hjástod mér, Ad hlýdu-ast æ og fylgja þér, Otta guds eg svo læri. Þin heilog písl mig huggar ein, Hvenær sem synda banvænt mein Samvitsku hrædda sær-ir; Gjor mig brennandi i bæn og trú, Bind mig í elsku vid þig nú, Þitt dæmi géf eg geymi. Veri þin kvol min vorn i neyd, Vel-geingnis styrkur, hlif í deyd, Og huggun effta' í heimi!

No. 70.

Lagid: Sæti Jesú! sjá oss hér.

Daudans þúngu kraminn kvol, Á krossi háng-

ir Jesús blidur. Frelsarinn svo brædra bol Bætti þjakast pissla hridum. Eilíf gædskan út hann géfur, Ansa kveinstaf sonar tefur.

2. Æ! hans hjarta sáru sorg! Sérhvers vinar huggun sneyddúr, Leid hann fyrir allra ørg Afbrot, smádur vard og deyddur. Harma skál hann hlaut afdrekka, Hann svo feingi' oss gudi þekka.

3. Hver fær kvøl íhugad þá, Svo hjarta vikna þess eí mætti, Og þó lída sekan sjá Synda þúngu refsing ætti; En, hár lídur heilagleiki; Hjartad kløkkni, raustin veikist!

4. Hann leid fyrir heimsins synd Hád-úng, undir, bond, kvalrædi. Hann, sann-nefndur lífsins lind, Létst á tré vid daudans mædi. Fús hann dó og fól sinn anda, Fød-urs, hlýdinn, geymslu handa.

5. Gódi Jesú! géf ad mér, Gleymist sist sú elskan megna, Er saklausum þrýsti þér, Petta' ad lída minna vegna! Minning kross-ins kvalar þinnar, Kostnad votti lausnar minnar!

6. Géf eg mína gráti synd, Géf eg med-ur varúd fagni Fridi' og sæld; þin sorgar-mynd, Si = áminni best hvad gagni! Eg vard

keyptur, ærn' og sóma Allt skal mannkyn Jesú róma!

7. Virðstú' af náð mér liðsemd ljá, Að líkjast þér og fylgja hraður, Þér, sem létst mig lífi ná, Lifa trúr og deyja glaður! Hátt þig prísa' um heiminn víðan, Heiðra nær eg dey og síðan!

8. Það, frelsari! vonar víst, Vonar æ þinn endurleysti. Þú óvirðir veika síst Von, sem styrkja þér eg treysti; Þegar fjör í dauða dvínar, Drottinn! meðtak sálu mína!

## No. 71.

Lagið: Faðir vor, sem á himnum ert.

Hjálpa mér, Jesú! herra minn! Að hugsa' um pínu' og dauða þinn; Hjálp mér ihuga elsku þá, Er lét þig deyja krossi á; Hjálp mér að þekkja og þakka þér Þá miskun, sem þú veittir mér.

2. Máttug guðdóms ímynd þó sért, Maður á jörð oss líkur ert, Hlýðinn allt fram í ystu neyð, Já! allt að krossins bitrum deyð, Sleginn og píndur í vorn stað, Alls heims þá barstu misverknað.

3. O! hversu verk það háleitt er, Heilagt

og blessad fyrir mér; Þá eg vil meta þetta' eg finn Þar vid ørmagnast huga minn, Titrandi hjartad sektir sjá Syndanna' og ángist finna má.

4. Gud af réttlæti rikur er, Ránga því straffar breytni hér, Fullt af kærleika guds er géd, Gjarnan likn sendir hegning med; A Jesú krossi eg þess má Med ótta og furdu vottinn sjá.

5. O herra Jesú! Jesú minn! Jeg reidi mig á dauda þinn, Og er framkropinn fyrir þér, Frelsari minn! i dupti hér, Þín ástin fyllir undrun mig, Sud min þakklát því prisar þig.

6. Þín gædska yfirgeingur manns Gjørvalla þánka' og skilning hans; Skyldi' eg þessvegna vera nú Valtur og laus í minni trú? Eg madur, þarf ei ætla mér Utgrundad fá, hver drottinn er.

7. Guds mikilleiki' er mestur sá, Mønnunum nád og elsku tjá; Audmýktarfullum anda í, Eigum vér hann ad prísa, því Hans nád og mildi mikil er, Oss mønnum sem hann veitir hér.

8. O minn frelsari! anda þinn, Andann

lát jafnan fræda minn, Svo hormúng pina hér á jord Heidri' eg i trú og þakkargjord, Og ad trúlyndur ydki eg Astsemd, og stundi dygda veg.

## No. 72.

Med sinu lagi.

Jesús, sem ad oss frelsadi, Einn var hann saklaus fundinn; Um midnátt, sem einn illvirki, Er fánginn og svo bundinn, Og færdur ógudlegum lýd, Sem á hann lygi bera, Hæda og smána hrákum med, Hvad gudspjollin kunngjora.

2. A føstudagsins fyrstu stund, Þó finndist sokin eingin, I Pilati hins heidna hønd Hafdur var sem mordingi, Fróman Kristum og fridhelgan Fann og svo vidurkénndi, Þvi frá sér i haldi hann Heródi kóngi sendi.

3. Um þridju stund ad strýktur var, Og stód, sem lamb beid dauda, Þyrni kórónu þúnga bar, Þar med purpurann rauda, Reyrlegg i hønd til hádúngar, Høgg og spott vard ad reyna; Til krossfestingar sjálfum sér Sinn kross hann bar alleina.

4. Nær sjottu stund ad negldur var, Nakinn á krossinn Kristur, Og blódi sinn' út-

hellti þar, Upp med krossinum reistur; Viðstaddir margir hæddu hann, Hæddi annar uppfesti; Um land allt myrkri ljósta vann, Ljóma bjørt sólin misti.

5. Um níundu hann hrópar hátt: Horfinn kvad gud sér vera; En þeir gallid og edik brádt, Upp ad hans munni bera; Jesús þá sína uppgaf ønd, I tvennt fortjøldin hrøkkva, Hardlega jardar hristust lønd, Hellur í sundur støkkva.

6. Hinna krossfestu' um kvøld var sagt, Kvalarar bein ad brjóti, En sídast var í sídu lagt Sjálfum Kristi med spjóti, Blód og vatn þar strax útaf rann, Uppfyllta ritníng segir Jóhannes, því ad þad sá hann, Þeim votti trúa megid.

7. En þá dagur á enda var, Agætur, ríkur herra, Jóseph adkom af krossi þar Krists lidid hold ad bera, Eins og sídur veglegur var, Vel þad smurdi til grafar, Vardhalds menn sídan sátu þar, Svo sem Matthæus skrifar.

8. Hjálp oss, ó Jesú! herra kær, Harda kvøl þú sem reyndir, Ad hlýdnir þér æ verdum vær, Og vørumst allar syndir; Dauda

þinn og hans sanna søk, Svo jafnan vér gaumgæfum, Og þig, drottinn! med ást og þokk, Æfinlegana lofum.

## No. 73.

Lagid: Oss lát þinn anda styrkja.

Misgjørd þá mig áklagar, Mín huggun, Jesú! sért, Örvænting ei mig bagar, Athvarf mitt þvi þú ert, Æ! til ad færa frid á jørd, Yfir þig døpur dundi Daudans ángistin hørd.

2. Hrærdur í hjarta mínu, Hugglądur prísa' eg þig, Ad þú ángist og pínu Einnig leidst fyrir mig, Æ! eg þvi gleyma aldrei vil, Hvad margt þú máttir lída, Mønnunum frelsis til.

3. Mín sála helst íhugar, Hvad leidst til frelsis mér, Af þvi þá yfirbugar Jll sídur girnd mig hér, Og síst heims flærd mig svíkur þá Eg þín fótsporin feta, Ferli lífs þraungum á.

4. Mér géf þol mædu' ad bera, Minn kross og alla neyd, Og þér trúan æ vera, Allt fram ad mínum deyd, En hjartad fridi uppfyll þú, Ad eg ánægdur lídi, Eins og þú leidst, Jesú!

5. Og sem þú oss til besta, Utgafst líkama þinn; Hjálp, eg með alúð mesta Elski náúnga minn, Og þó vanþakkað verði mér, I kjærleiks ydju réttri, Ekkert mig letji hér.

6. Svo við æfinnar enda, Eg dey í von og trú; Um eilífð eg fæ lenda I dýrð með þér, Jesú! Þig, sem hér leiðst, eg þar mun sjá, A guðs hástóli' og gjalda Þér gøfgun himnum á.

## No. 74.

Lagið: Jesú! þínar opnu undir.

O minn Jesú! øll þín pína, Alla sefar hrygð og neyð, Huggast eg þá hørmúng þína Hugsa um og beiskan deyð; Til lausnar allt því leiðstú mér, Lát mig aldrei gleyma þér! Þér, sem synda sekt barst mína, Saklausan þá létst þig pína.

2. Ef mér flýgur synd í sinni, Svikult mitt ef freistar hold, Þú æ sért mér þá í minni, Þar við krossinn stóðst á fold, Hæddur, kvalinn, hataður, Huggun vina ørsneyddur, Fjøtur synda' eg fæ þá slitið, Og fullur vikuum til þín litið.

3. Heims ef lyst mig glisleg ginnir, glæpa fram á breiðan veg, Gjálífis að glaum eg

sinni, Géðhraustur, nei! segi eg; Heims lyst Jesúm heingdi' á tréð; Hins réttláta kvaldi géð, Burt holds lyst úr brjósti mínu, Bjó hún lausnaranum þínu.

4. Ef mér ógnar ótti' og mæða, Eg þá, Jesú! með þér líð, Mig þau ekki megna hræða, Eg minnist á þitt dauða stríð, Þitt mér kénndi þolugt géð Þolinmæði að sigra með; Æ eg vil þér eptir feta, Efl mig bæði' að vilja' og géta!

5. Og þó hel á fund minn fari, Fullör-uggur samt er eg; Þú mín vernd og minn lausnari! Máttir gánga sama veg; Og þú vegsemd ávannst þér, En fékkst stað tilbúið mér, Í þíns föðurs friðar ríki, Finnst þar ekkert böl né sýki.

6. Jesú! sál' áminntú mína, Að minna vegna blóð þitt rann; Kross þinn, dauði, kvöl og pína, Kvittun synda og lausn mér vann; Þá skal öll mín æfistund Offruð þér, en hels við blund Þig mitt andvarp efsta prísa, Upp til dýrðar holdið rísa.

No. 75.

Lagið: Upphef eg augun mín.

Grát auga! guðs son dó, Sem gjörði þó

vel allt, Hjálp í neyd heimi bjó, Heill útbreiddi ávallt; Sannleiks kénnarinn klár, Á krossi deyddur er, Vegur er herrans hár, Hann ekki skiljum vér.

2. Jeg fagna, Jesús dó, Jeg veit, sú menn fékk grætt Ogn daudans eydd burtsló, Adams má gledjast ætt; Lífs morgun-rodinn ljós, Leyptrar heims ættum hér, Vors guds úthrópar hrós, Hans gædska eilíf er.

3. Vonarfull venda mín Vætt tárum augun sér, Í himinn upp til þín, Ó gud! hvers mildin er Eilíf og heidur hár, Hvad er lífs sokund ró? Hvad er heims freistni og fár? Fyrir mig Jesús dó.

## No. 76.

Med sínu lági.

Minnstú, ó madur! á minn deyd, Minnstú á mína sáru neyd, Minnstú þad eg hef einn fyrir þig, Í daudann géfid sjálfan mig.

2. Þad láttú þér nú vera kennt, Ad þetta hafir þú ei forþént; Af elsku hef eg þér allt þad veitt, En ekki fyrir þitt verkid neitt.

3. Því láttú þad uppvekja þig, Ad þú komir fram fyrir mig, Med ángri og ydr-

um hjarta þíns, Svo ad þú njótir danda míns.

4. Ad sál þín verdi' af syndum hrein, Og sauruglegri lasta grein, Fyrir þann dreira' í dapri pín, Sem dundi útaf sárum mín.

5. En hverju 'gégnir heimskan sú, Ad hugsa fáir um þettad nú? Margur er sá madurinn þar, Um mína pínu' ei hirdir par.

6. Hvernig hann kunni helst ad fá Hjálp andar sinnar, og leysast frá Hrelling í danda' og hugar pín, Og hegning' fyrir syndir sín.

7. En fagna' og gledst min fátæk hjørd, Fyrir minn danda hólpin gjørd, Sem hefur allt þitt traust á mér, Ad visu vil eg hjálpa þér.

8. Í mínum danda er þitt líf, Þín hjálp, þitt traust, þín einka hlíf, Mín elska sé upphvatníng þér, Í dygd og trú ad líkjast mér.

9. Lof og heidur sé, lausnarinn! þér, Líkn fyrir þá, sem veittir mér, Fyrir þinn danda og dreira foss, Ó drottinn! hjálpa øllum oss.

## No. 77.

Lagid: Fadir vor, sem á himnum ert.

Í þínum danda, ó Jesú! Er min lífgjøf og

huggun trú; Dásemdar kraptur dauða þíns, Dreifist nú inn til hjarta míns, Uppá það synd og illskan hver Utaf deyi í brjósti mér.

---

## 7. Jesú orð á krossinum.

---

### No. 78.

Lagið: Greinir Jesús um græna tréð.

Að Jesú krossi kom og bið, Kristin sál'! og því góðfús hlyð, Sem frelsari þinn sagði þar, Seinast verold' til huggunar.

2. Hann fyrst óvinum friðar bað: „Fað„ir! — segir hann — tilgéf það, Villtir á synda „vegi hér, Vita þeir ei hvað gjöra mér".

3. Fyrir mér bið, frelsari minn! Ef fer eg villt um lærdóm þinn, Og aðvaranir ekki fá Aptráð mér lasta vegum frá.

4. Harmþrúnginni sem móður mót Mændir augum, við krossins fót, Og þinn Jóhannes henni þar, Hjálparmann, vin, son, ávísar.

5. Þegar mig undir þinn kross ber, Og þrýtur vina stoðin mér, Sorg, óvild, neyð,

mig hata og hrjá, Hjálp, Jesú! send mér aðstoð þá.

6. Strax, er ræninginn sínar sá Syndir yðrandi' og vildi ná Fyrir þinn dauða frelsi' og hlíf, Fullvissu naut um eilíft líf.

7. Huggun af þínum munni mér, Minn Jesú! gef, þá deyja fer; Um mér í tíma að mér sjá, Og þér í vegsemd lifa hjá.

8. Þig kvaldi' á sál' og holdi hörð Hörmúng, það fjórða vitnar orð: „Hvers vegna, „minn guð! minn guð! þú, Mig hefur yfir- „gefið nú?"

9. Þitt hróp og ángist, herra! hér, Huggun og von þá gefur mér, Að yfirgefast ei eg skal, Um dauðans þó eg ráfi dal.

10. „Mig þyrstir," þú vannst hrópa, þó Þér einginn svaladrykk tilbjó, Lífs kraptar tóku' að tæmast þér, Til þín súrt edik rétt því er.

11. Virlàðan sárri beiskju mér Bikar ef dauðinn rétta fer, O Jesú! stöðugt gef mér geð, Góðri ró hann afsúpa með.

12. Kvalanna mældan kaleik þér, Kristi! hlýðinn útdrakkstú hér, Og lýstir hvað ályktað sé, „Allt fullkomnað," á krossins tré.

13. O! hjálpráds géfna huggun þá! Hédan af synd og daudi má Ekki skélfa mig annan mann, Eilifan sigur mér þad vann.

14. Allrasidasta ord þitt nú Er min lifs von þá sagdir þú; „Fadir! i þina fel eg „hond, Fram hér lidandi mina ond".

15. Géf mér svo læra' ad lifa þér, Loks burt i fridi sofni' eg hér, Fullhuga eg i fødurs hond, Fela svo megi leysta ond.

## No. 79.

Med sinu lagi.

Jesús Kristur á krossi var, Kvaldist allur hans likami sár, Med hinni mestu pinu, Sjø ord vor drottinn sagdi þar; Haf þau i hjarta þinu.

2. Fyrsta: sýnir hans sinni' og nád, Sinn fødur krøptuglega bad Um heill óvina sinna: „Minn fadir! fyrirgéf þeim þad, Þeir vita „ei hvad þeir vinna."

3. Annad: merkir hans mildu trú, Munadarlausri segir nú: „Sjá! þar er son þinn „kvinna! Jóhannes! módir þin er sú; Henni „skalt umsjón inna."

4. Þriðja: hans mikla miskun er, Minnast þess jafnan skyldum vér, Ræningja svo réð svara: „Án efa skaltu í dag með mér, Í „mínu ríki vera.“

5. Fjórða: sýnir þér synda mátt, Son guðs kallar á krossi hátt: „Guð! því vilt mig „forláta? Harðlega kvelst allt holdið mitt, „Yfrið mjög úr máta.“

6. Fimmta orð hans skalt festa' í hug, Frelsarinn dýrt að keypti þig, Því sagði hann: „sig þyrsta,“ Hann girntist heill mannkynsins mjög; Hold hans sárt naglar nista.

7. Sjötta orð kristnum sé innrætt, Syndugа alla fær það kætt, Hvenær í hug það kæmi: „Uppfyllt er allt,“ og öll synd bætt, Með minni kvöl í heimi.

8. Seinasta': „þér faðir! fel eg í hönd, „Fram nú líðandi mína önd.“ Eg bið þig, minn lausnara! Heilags anda mér huggun send, Þá hlýt eg af heimi fara.

9. Ljúfi Jesú! þín lífsins orð Lát mig öll geyma hér á jörð, Í trú og hjarta hreinu, En með þér síðan æru' og dýrð Öðlast í ríki þínu.

## No. 80.

Lagiđ: Skapari stjarna herra hreinn!

O Jesú! sén orđin þín, Andláts síđasta huggun mín, Sál minni verđi sælan vís, Međ sjálfum þér í Paradís!

---

# 8. Jesú upprisa.

---

## No. 81.

Lagiđ: Gleđ þig guđs sonar brúđ.

O! hjálpráđ! uppreis hér, Sá allt líf hafđi' í sér; Upprís gløđ, önd mín! líka, Athuga dásemd slíka! Ei gátu heljar hörđu Haldiđ bönd drottni' í jörđu.

2. Hann uppreis, heyriđ þér, Hann, sem ofsóktur hér! Hann þér hötuđuđ, leiddud Harmkvæli yfir, deyddud; Nú dauđans allt ofbeldi Undir hans liggur veldi.

3. Hann upprejs! heyri nú, Hverra veik reyniſt trú! Undir hans krossi eigi, Efasemd nein svo beygi; Upprejs af æđstum krapti, Yđur lífs von því skapti.

4. Ei hræðist eg nú þinn, O dauði! brodd þvi vinn; Nær sem þú kallar kém eg, Hjá Kristi staðar nem eg; Eg lít gégnum grøf svarta, Glèði ljós himins bjarta.

5. Vissu lífs eilífs hjer Lausnarans sigur mér, Megnar ei mig að fæla Myrkur grafar né kæla; Um jörð all-lítið géf eg, Í Jesú lífs von hef eg.

6. Jesús upprisinn er, Alsøgrund þetta hjer, Frelsis foríngja halda Fékk ei band dauðans kalda; Hann uppreis, upp skal rísa Önd min og nafn hans prísa!

## No. 82.

Lagið: O faðir himneski' og eilífi guð!

Lof sýng eg drotkni, sem lífið gaf mér, Lofgjörðin honum og þakklætið ber, Jesús af grøfinni frægur út fer, Frelsari minn veit eg lífs er.

2. Unun, von, huggun, þar øll byggist á, Á drottins hásæti ríkjandi' er sá, Sem leysti mannkynið syndunum frá, Síðar til hans koma jeg má.

3. Mína úr jørðunni mold reisir hann, Mig nýu lífi sem gæða þá kann, Meður þeim út-

völdu mér sætis ann, Minn Jesús þá eg fer héðan.

4. Grafar beð mitt lít eg glaður því á, Guði fel tímann nær leysi hér frá; Eg fæ mér himininn opnaðan sjá, Og vil sem fyrst heim til guðs ná.

## No. 83.

Lagið: Túnga mín af hjarta hljóði.

Sá krossfesti Kristur lifir! Kristinn eingan skal því mann, Dauðans falla ótti yfir, Eingin gröf hann skelfa kann, Þeim sem lúinn þreyr, uppbúin Þæg er sæng að hvílist hann.

2. Ertú, Jesú! æ lifandi, Eg á deyð því sigur vinn, Lífs von mín æ stöðug standi, Studd við lífsins máttinn þinn, Höfuð lifir limum yfir, Lífs þeim kraptinn géfur sinn.

3. Hold er eg, mitt hold skammvinna Hlýtur verða dupti að, Þegar stundir lífsins linna, Til lífs þó Jesús vekur það, Sín tilfærir, sæld mig nærir, Sinum upp í dýrðar stað.

4. Hér opt þjáir holds kránkleiki, Heilsuna síðar allir fá, Í jörð endar jarðnesk

veiki, Jord andlegur rís eg frá, Okreinkjandi' í ædra standi, Edli mitt skal verda þá.

5. Veit hjálp, Jesú! veiki minni Von ad gledjast þessa vid, Lifnadinn géf laga kynni, Læri' og stundi helgan sid; Sofna' eg gladur, sæll vaknadur, Senn hjá þinni hægri hlid.

## No. 84.

Lagid: Heidrum vér gud af hug' og sál'.

O Jesú, guds eingétinn son! Alit þú vorn lofsanng og bón, Hátt vert prísadur, herra! þú, Hver ed dóst, en þó lifir nú! Unn oss um glada eilifd fá, Æru, sæld, dýrd og vegsemd þá, Hverja þú bjóst oss himnum á.

## No. 85.

Lagid: Kom skapari heilagi andi.

O Jesú! hel þú yfirvannst, Ei dandans bond þér haldid fá, Med sigri oss þú frelsi fannst, Frid og lif eilift gudi hjá.

2. Herra upprisni! hjálp veit oss, Hug svo ei bindum jordu vid, En fúsir stundum ædra hnoss, Eignast i himna sælu frid.

3. Géfdú oss nád ad þókknast þér, Þann sem ad skeikar styd þú fót, Sjálfur strid med

vill hrjá, Hjástod ørugga hefur sá, Volædi sér ad varna.

6. Fødur, syni og anda sé, Ædst dýrd um jørd og himinn! Eins sem hún var ad upphafi, An enda verdi framin; Kénn oss ad halda kristinn sid, Kvittast og skilja syndir vid, Sá þad vill sýngi: amen!

---

## b) Eptir hjónavígslu.

### No. 310.

Lagid: Gædskurikasti grædari minn.

Þau féllu ad þínum fótum hér, Fadir! einum treystandi þér, Gódra þvi adstod ertú; Þad bandid trygda blessa þú, Blídri med fødur hendi nú, Sem trúlynd teingir hjørtu, Æ med, Gladt géd, Lífsins feta Géf þeim gøtu' og Gledi næga, Í þíns fridar skauti og skjóli þæga.

### No. 311.

Lagid: Gædskurikasti grædari minn.

O gud! þín mild og heiløg hønd, Hjúskapar gaf á jørdu bønd, Þig bidjum, helgur herra! Géf þessum hjónum heill og nád, Hjartans eindrægni, idni, dád, Þeirra lát yndi' ei

þverra, Þau leið, Þeim greið, Hjálp að bera Hvað sem skér, svo Heit aðgæti, Vongóð í hrygðum, Vor í kæti.

---

## 7. Katekisatións - sálmar.

---

### a) Á undan katekisatión.

#### No. 312.

Lagið: Kristi! vér allir þökkum þér.

Í nafni Jesú nú, vor guð! Nálæg þér börn þín standa, Orð þitt í gleði eins og nauð, Oss færir líf til handa; Svo það til gagns vors sanna vér, Séum fúsir að læra hér, Géf öllum oss þinn anda.

#### No. 313.

Lagið: Heiðrum vér guð af huga' og sál.

Alvísi guð! lát orð þitt blítt, Útbreiðast heims um löndin vítt, Góða þeim úngu géf sem fyrst Til guðrækni og dygða lyst, Þinn kraptur æðri öllu er, Úngum og gömlum kénn því hér, Góði faðir! að geðjast þér.

---

### b) Eptir katekisatión.

## No. 314.

Lagid: Gædskurikasti grædari minn!

Nádugi gud! vér þøkkum þér, Pad oss úr myrkri leiddir hér, Og kveiktir ljós þitt klára; Kénndir oss þekkja þig og hann, Þú hvern útsendir, lausnarann, Strax á tíd æsku ára; Gjøf sú Géf þú Avørt færi, Ad vér lærum Lífa' og deyja, Frelsarans bodord sem fyrirsegja.

Vér bidjum þig, ó Jesú Krist! (Sjá No. 130).

---

# 8. Konfirmatións-sálmar.

---

### a) Á undan konfirmatión.

## No. 315.

Lagid: Ovinnanleg borg er vor gud.

Þessi dagur, ó gud, vor gud! Géf vel oss blessast nái, Vid þig oss bind og vid þín bod, Veit trúarstyrk hver fái; Fadir! hér fyrir þér, Fólk úngt og gamalt sjer; Oss, fadir! álit þú Med ædstu mildi nú, Andi þinn lid oss ljái.

2. Þitt legg þú úngum orð í munn, Innra þess kraptur brenni, Að trúna' og hennar atrið kunn, Æ fölskalaust meðkénni. Þeir fyrri færðust þér, Fyrir þeim báðum vér, Skírðust til þíns nafns þá, Þig, guð! nú treystum á, Von sú uppfyllast vinni.

3. Náðar sáttmál ánýja þú, Nú við börn þessi' og síðan, Lát já það, sem þau segja nú, Sist þeim úr minni líða; En breiskt þó er sérhvert, Einn þú máttugur ert, Hjálpa með styrkri hönd Hverri frómlyndri önd, Til enda trúrri' að bíða.

4. Og nær þau húsum feðra frá, Flytjast í veröldinni, Trúarbrögð Jesú þú lát þá Þeim vera' í fersku minni; Svo hlýðin þjóni þér, Á þig treysti' einn, sem ber, Yfirgafstu' aldrei þann, Á þig sig reiða vann, Og föður-líkn fela þinni.

## No. 316.

Lagið: Gæðskurikasti græðari minn.

O faðir, son og andi! þinn, Orofinn stendur sáttmálinn, Eg þó mín orð ei haldi; Æ! minn mig jafnan á minn eið, En ef eg skeika' af réttri leið, Unn mér það ángri

valdi; Hver þá Hér má, Vita, guð! að Veitir náð, því Viljum glaðir Á sáttmál þitt treysta, tryggvi faðir!

---

## b) Eptir Konfirmatión.

### No. 317.

Lagið: Lofið guð, lofið hann hver sem kann.

Drottinn! þú Drottinn, að hátign stór! Æskan nú Einlæg en hvikul fór, Þínum merkjum undir æ Og dygðar stríða. Seig þú: børnum lið eg ljæ, Læt þau heill bíða. Guð er hjá, Guði ef hlýðið; Faðir sá Sjer hvað bágt líðið, Örugg þá, Elskuð børn! stríðið, Sterk er drottins hjálpar hønd. :,: Yðar faðir elskar heitt Elskendur sína.:,:

2. Dygða-skeið Skundið nú, kæru børn! En sú leið Er hætt og villugjørn; Hættri villu þurfið þér Þó síst að kvíða, Ljós á vegum ykkar er Orð drottins blíða. Guðs forsjá Greiðir veg yður, Hættum frá Hver-vetna ryður, Alla þá Almáttug styður, Sem ljúft er að drottinn leiði sig. :,: Hann er sæll, sem hlýðir fús Himnanna guði:,:

3. Varnir! hér, Hlustið orð drottins á,

Hrædist þér, Ad hneixla börnin smá; Drottins raust af hæstu hæd, Hátt dunar þannig: Mín skal hegning hitta skæd, Hneixlunar manninn; En hver sá, Er villtan leidir Veginn á, Veg sjálfs sins greidir, Sælu' ad fá, Sem gud tilreidir, Þeim er kærleiks vinna verk. :,: Gjöri hver ad gæta sín, gud drottinn allra! :,:

## No. 318.

Lagid: O drottinn allsvaldandi!

Gud, fadir orma' og anda, Eilíf, trúfost veran merk! Obifud ord þín standa, Þó alheims falli bygging sterk; Veit oss trú, Vel ad halda, Ef veikist sú, Styrk margfalda Vid oss þú, Og veikleiks lát ei gjalda.

---

# 9. Reformatións-sálmar.

---

## No. 319.

Lagid: Væri nú gud oss ekki hjá.

Gud ljóssins fadir gódi! nú, Göfgi þitt nafn vort hjarta, Ur ljótu myrkri' oss leiddir þú, I lærdóms skin Jesú bjarta, Þá myrk-

urs skýldi þoka því, Þú sagdir: verdi ljós á ný! Drógst svo frá dymman svarta.

2. Þína kirkju stríddi' illskan á, En gud! þú nádir styrkja; Hug og dug gafstú þínum, þá Þeir lýstu' upp veginn myrkva, Svo frelsi' og ljós oss féll í skaut, Flýja hjátrúar veldid hlaut; Sem klettur stód þín kirkja.

3. O gud! lát oss ei optar sjá Aldanna myrkú daga, Og lát kénnendur aldrei fá, Oss sem á tálar draga, Svo allir kristnir, eins og ber, Þig elski, þekki' og hlýdi þér, Og þinúm elskulega.

4. Øll blessan, drottinn! er hjá þér, Oss blessa þú af hædum; Kirkjunnar ætíd vørdur ver, Vernda frá ófrid skædum; A jørd trú mann=dygd oss skal þá Undirbúa, svo himn=um á Ljóssins gud lofa nædum.

## No. 320.

Lagid: Allt eins og blómstrid eina.

Gód stendur, gud! þín kirka, Grundvøllud, føst, óhrærd, Hana vannst stydja og styrkja, Gégn strids ofriki' og flærd. Illskunnar megnt ofbeldi, Ei hús þitt bifa má, Mótstend=ur myrkra veldi, Merkum byggt sannleik á.

2. Líkusami fadir ljósa! Oss leiddir fund þinn á, Allir sem inngáng kjósa Í hús þitt, gjarnan fá. Þá baudstú, burtu lída Blindni og hjátrú vann; Lofgjørd þér lúkum blída, Í ljósi því upp sem rann.

3. O gud! oss unn ad læra, Hvad ertú mildur oss, Og í nyt ord þín færa, Svo ødlumst dýrdar hnoss; Æ medur oss þitt skæra Orda ljós drottinn geym; Lát þess fridar-bod færa Farsæld um allan heim.

---

## 10. Kirkjuvígslu-sálmur.

---

### No. 321.

Lagid: Í dag eitt blessad barnid er.

Þig innilykja, ó gud! kann, Ei jørdin, hús né stadir, Himnanna einginn himinn vann, Þig, himna taka, fadir! Alla hluti, þú ætíd sjer, Einnig þann søfnud, sem ad hér Þig dýrkar, þig ákallar, Vor hjørtu bljúg sig hefja nú, Himnanna til, hvar sjálfur þú Drottnar um aldir allar.

2. Í nafni Jesú oss lít á, Eptir hans fyrirheitum, Hús þetta blessa, heyr oss þá,

Hér þinnar nádar leitum. Hér heyrum vér þitt heilagt ord, Hér setjumst vér vid Jesú bord, Hér dygdir helgar lærum; Þú, fadir! rétt oss þína hönd, Þinn andi styrki vora önd, Ad gódan ávört færum.

3. Margur, sem hrygd i brjósti ber, Hvern buga mótgángs hlekkir, Athvarfs leitar og hjálpar hér, Hans mædu best þú þekkir, Leid hann, ó gud! af ángist út, Og lát hvern þann, er þjakast sút, Frelsis stund finna þína; Svo hann med gédid gladt á ný, Gángi musteri sjálfs þins i, Þakklæti þér ad sýna.

4. Þig bidjum vér i þessum stad, Þú, fadir allra þjóda! Vort blessa land og vernda þad, Veit því frid og heill góda: I nafni Jesú oss heyr þú, I nafni Jesú von og trú, A hans ord ætid festum: Ad þú oss veitir, herra! hér, Hvers i hans trausti bidjum vér, Og oss er æ fyrir bestu.

5. A sidan, gud! med eingla her, Um eilífd samstemmandi, Fegri lofsaung vér færum þér, A farsældarinnar landi, Þar fáum vér þig sjálfan sjed, Og son þinn Jesúm Kristum med, Sem meigum vin vorn kalla, Þar

géfur þú oss frid og frægd, Fögnud, vegsemd og gæda nægd, Drottinn! um eilifd alla.

## 11. Fridar - sálmur.

### No. 322.

Lagid: Herra! þér skal heidur og lotning greida.

Bjódid lof þeim Böli og neyd afvendti, Burt er strid, sem Oss med naud umspennti, Bæna gádi, Grimd afmádi, Gud alrádi, Og sina nád oss sendi.

2. Herrann ædsti Hýr oss gaf ad fridur Frá himni sté til Vorra landa nidur, Hann oss kætir, Hvad sem mætir, Hrygd upprætir, Barn adgætir, er bidur.

3. Gud! med lotning Þér sé þökk vor samin, Þinn lofstýr um Öll heims londin framin; Þig, er gridin, Gæfu lidid Gafst og fridinn, Einn tilbidjum, amen!

## 12. Huggun i sjúkdómi.

### No. 323.

Lagid: Af djúpri hrygd ákalla eg þig.

Eg farsæld lifsins ádur sá, A minnum

gledi-døgum, Otal gladværdir átti' eg þá, Í eptirlætis høgum; Vil eg því nú veikleika med, Vardveita jafnan rósamt géd; Þó særist sorgar sløgum.

2. Eg má syndara auman mig, O gud! fyrir þér játa; Óhlýdinn er eg þrátt vid þig, Þú agar samt í máta; Skal eg sekadur ekkert þá Álag tímanlegt borid fá, Og mig leidrétta láta?

3. Fadir! mig allan fel eg þér, Forsjón þín ad mér gæti; Hvort sem þú leingra léनar mér Líf, eda heli' eg mæti, Á þér einum skal allt mitt traust, Ásjá mannanna' eg trúi laust, Þú hjálpar, huggar, kætir.

4. Eg þá trúadur út af dey, Erfd mín er viss á hædum, Mitt andlát því eg óttast ei, Ellegar grafar hrædu; Og þó eg ráfi' um daudans dal, Drottinn! nád þinni' eg treysta skal; Þú ert hjá mér í mædum.

5. Harmatølum skal hrynda frá, En heidur gudi veita, Med þolinmædi honum hjá Hjálpar og nádar leita; Jafnan í naudum hugsa hér, Hversu líknsamur drottinn er, Hann einn kann øllu ad breyta.

## 13. Vid kirkjugáng mædra eptir barnburd.

### No. 324.

Lagid: Gædsku guds vér prísum.

Lof, dýrd um aldir alda, O gud! þér sýngjum vér, Þygg lofgjørd þúsundfalda, Þú veikum miskun tjer! Oss þegar ángur skér, Í fodur umsjón tekur, Og aldrei burtu rekur Þá, sem ad treysta þér.

2. Hættar þrautir, sem þjádu, Þær hvurfu, gleymdist hver, Og inndæl ord vidkvádu: Einn madur fæddur er, Arftøku von sem á Í dýrdar ríki ædstu; O von, án líka, stærstu! Hversa burt hrygd øll má.

3. O! vor gud! veit hver módir Vel børn uppali' um heim, Avertir idju gódir Eilífd farsæli þeim, Upp þá rísin af grof Til gledi, gladvær segi: Gud! hér er eg og, þegin Af þér, hin góda gjøf!

## 14. Á fædingar-degi manns.

### No. 325.

Lagid Guds son kallar, komid til min.

Fyrir mitt líf eg þakka þér, Á þessum degi' er gafst þú mér, Gud! þér eg gøfgun færi, Ad þín nád til þess þókknun bar, Þad eg af eingu skaptur var; Líf mitt sú nádin nærir.

2. Undarlega þú um mig bjóst, Vid umsjón þína fram eg dróst Ad augnabliki þessu; Gledi-dag margan gafst þú mér, Grátur og þjáning umbreytt er Í farsæld, frid og blessun.

3. Overdugan 'medkénni' eg mig, Margfaldrar nádar lífs um stig, O! þú allsherjar herra! Mig, jardar duptid, minntist á, Í mildi þinni eilífd frá, Svo farsæll feingi' eg verá.

4. Þú sást og heyrdir mædu mín, Min andvørp taldi forsjón þín, Fyr enn eg skapnad feingi, Minn deildan verd útmældir mér, Miklu fyr enn eg beiddi hér, Þá eg var enn þá einginn.

5. Þú létst mig fyrir þér finna nád, Frá eilífu þín vitsku dád, Synd' alla sá þó mína.

O! elsku' og náð, þá ainmum mér Allrar veraldar herra tjer! O fadir! forsjón þína.

6. Ad lifid mitt adgættir þú, Ad lífs og heill hér stend eg nú, Ad lífs ánægju' eg smakka, Ad undarlega' útleiddir mig, Og hingad til um gæfu stig, Þér, fadir! allt eg þakka.

7. O gud! ef lifa leingur á, Legdú mér til þad gagna má, Af þér eg vona þessa. Eg líf og sál afhendi þér, Æ herra! virdstú líkna mér, Vernda mig best og blessa.

---

## 15. Ferda-sálmar.

### No. 326.

Lagid: Fadir vor, sem á himnum ert.

O þú guds barna geymarinn! Sem greidir inn- og út-gáng minn, I nafni þínu nú vil eg, Nádþurfi byrja ferdaveg. O drottinn! bjód þú einglum þín, A leidinni þeir gæti mín.

2. O drottinn! virdstú ad mér gá; O drottinn! leid mig til og frá; Hönd þín mig verndi hvar eg fer, Háskanum vísi burt

frá mér; O drottinn! skildu ei við mig, Einka förunaut kýs eg þig!

3. O drottinn! geym mitt megn og mál, Minn líkams krapt og veika sál, Húsið líka og heimkynnið, Holla vini, sem skilst eg við, Gættu þeirra og géf mér þá Glaða og heila aptur sjá.

4. O drottinn góði! annast þú Áformið minnar reisu nú, Taktú mig að þér trútt og vel, Tilsjón þinni mig allan fel, Slisförum öllum varna við, Vertú minn guð á alla hlið.

5. O drottinn! eign mín æfinleg! Af þér lifi og hrærist eg, Fyrir mig Jesús útgaf önd, Af því leið mig við sterka hönd, Einkum nær eg skal falla frá, Farsæla reisu géf mér þá.

---

## a) Við húsföðurs lánga burtför.

## No. 327.

Lagið: Væri nú guð oss ekki hjá.

Þú þekkir, guð! vort áform allt, Og vorn fótstig þú greiðir, Iðn góða blessar einn ávalt, Allt styður, verndar, leiðir; Eg byrja

ferd, en bid: ad þú, Blessir mitt áform líka nú, Háskasemd allri eydir.

2. Géf heilsa, þol og heill frá þér, Hjá mér á vegum búi, Svo hagsæld finni' eg hvar eg fer, Og heim med gladværd snúi, Um votn og lønd mót voda hag, Vertú minn skjoldur nótt og dag, Eg þinni tilsjón trúi.

3. Ástvini mína ei forlát, Minn ert og þeirra fadir, Heimkynni mínu haf á gát, Hvad sem mér úthlutadir, Heimafólk, eignir, ástand, líf, Almættis þinni fel eg hlíf, Géf aptur finnumst gladir.

4. Eg svo í fridi reisi rór, Ræki mitt kall med dádum, Eg held til baka, hitti frór Hús mitt gladur í nádum, Og ásamt mínum eptir þad, Eg þig prísa og dáist ad Þinni vernd, þínum rádum.

---

## b) Vid húsfodurs apturkomu.

### No. 328.

Lagid: Fadir vor, sem á himnum ert.

Mitt hús enn stendur þokk sé þér, Þú gud! sem geymdir mitt hvad er; Margur heimkominn hús sitt fann Hrapad, velbyggt sem

kvaddi hann, En stormur, vatnsflód, eldur brant, Örsnaudur svo hann rása hlaut.

2. Þú heyrdir, drottinn! það eg bad, Þá eg og minir skildumst ad, Þú hefur vardveitt þá og mig, Þín náð oss fylgdi mildilig, Ferd mína hefur framad þú, Finn eg allt skadlaust heima nú.

3. O gud! verndarinn! eg þig bid, Oss hér framvegis haldtú vid, Ad med fridsemi, eins og ber, Umgángast mættum gladir vér, Og lifa þar til æfin dvín, Í bæn og trú og von til þín.

4. Öll vor fótspor og allan hag, Annist þín forsjón nótt og dag, Þín hönd oss leidi, herra kær! Hvar sem vér gaungum, nær og fjær, Og géf sídast ad sælir vér, Samfögnum upp í dýrd hjá þér.

---

## 16. Vid lika úthafningar.

---

### No. 329.

Lagid: Þann signada dag vér sjáum nú einn.

Dagur svo lángur aldrei er, Ad ei med kvöldi lendi, Daudinn lífid dregur med sér

Dapur i burt úr hendi, Vér skulum út, en grøfin er gjør, Par géfst ei annar endi.

2. Gud géfi þad svo þjóunm vér, J þessari verøld inni, Ad guds son med trúuni taki hver, Svo traustlega miskun finni; Pá heimurinn frá oss hallar sér, Hjálp guds aldreji linni.

3. Nær forum vér i vort fødurland, Og úr fárinu skulum venda, Géf eg mína sálu gudi' i hand, J gledi himnaríkis senda. Gud fadir, guds son, guds heilagur andi, Géfi oss gódan lífs enda!

Lof sé gudi! vor lausn er gjørd o. s. frv.
(Sjá No. 92, 2ad, 4da og 5ta vers).

## No. 330.

Lagid: Fadir vor, sem á himnum ert.

Andlegan styrk mér auktú þá, O gud! nær verøld skilst eg frá, Svo gédrór mína géfi' eg ønd, Gódi fadir! i þína hønd; Hørmum mínum i huggun snú, Og himninum fyrir mér uppljúk þú!



# Viðbætir.

## I. Lofgjørðar og þakklætis sálmar.

### No. 331. (1).

Lagið: Ris upp, min sál! að nýju nú.

Eilifi guð! þín gæðsku gnótt, Gjørvallra minna daga nótt, Upplýsti náð einskærri, Svo leiðin þraung, Ei þótti laung, Þjáningum setuð nærri.

2. Fyrir þá elsku, faðir vor! Færum þér við hvert æfi-spor Þakkir í þessum heimi, En síðarmeir, Þann aldrei deyr, Eilifðin pris þér geymi.

3. Þér einum felum alla oss! Þinn einka son, er leið á kross, Vort dæmi, von, ágæti, Sé þar til vér, Sønnum hjá þér, Sorg að breytist í kæti.

### No. 332. (2).

Lagið: J Babýlon við vøtnin straung.

Þig lofi allur eingla her, Alheims vernd-

arinn blíði! Þig lofi jarðar þjóðin hver, Þér allt hvað skaptir hlýði! Þig lofi allt hvað lofa má, Er líf og tilveru' af þér nam fá, Um þitt alveldið víða! Utbreiðist lof þitt alla tíð, Eilíf guðdómsins hátign blíð, Af túngum allra lýða!

---

## II. Endurlausn vegna Jesú.

---

### No. 333. (3).

Lagið: Guðs son kallar, komið til mín.

Jesús Kristur vor vinur er, Vinfeingi hans fulltreystum vér, Samvitsku' er ógnum eyðir; Flýum því glaðir fund hans á, Frelsa náði oss kvölum frá, Og til lífs eilífs leiðir.

2. Af elsku til vor ofan frá, Guðs einka son steig jörðu á, Og maður verða vildi; O þann fögnuð, sem fáum vér! Frelsari vor hann orðinn er, Prísum hans miklu mildi.

3. Guðs einka son er vinur vor, Vér ef hans fetum dygða-spor, Í huggun hrygðin breytist; Óttast ei þurfum deyð né dóm, Drottins ef þekkjumst náðarróm, Oss þá hans vingan veitist.

4. Vinur trúfastur vor er hann, Er vill oss hjálpa og líka kann, Ef hörmúng á vill stríða; Synd-þjáðir flýum fljótt til hans, Fullkomna meina græðarans, Sem andar svipti' oss kvíða.

5. Oss yfirgéfið aldrei fær, Undir hans vernd framgaungum vær, Ef hrösum, hann oss styður; Hver honum treystir, sæll er sá, Sífeldt hans gánga vegum á, Um aðstoð bljúgur biður.

6. Vor ástvin, Jesú! þakkir þér, Þínir frelsuðu gjöldum vér, Sem von oss veittir blíða, Þínum fagnaðar fundi ná, Fullsælum gleðjast drottni hjá, Í flokk útvaldra lýða.

## No. 334. (4)

Lagið: Heiðrum vér guð af huga' og sál.

O hvílík heill! að þekkjum þann, Þjóða gjörvallra frelsarann, Jesúm, sem lífið lét á kross, Ljúfur til frelsis öllum oss. O! þá brennheitu elsku hans, Ei vildi hann dauða syndarans, En til farsældar leiddi lands.

2. Sælar má kalla þjóðir þær, Þig sáu' og heyrðu, Jesú kær! Meðan í heimi hafðir dvöl; Hvers þó oss hér ei géfist völ, Þig

munum glaðir síðar sjá. Samarfar þínir verða þá, Í helgra bústað himnum á.

3. Sanna huggun og sælu von, Sjálfum hefur oss veitt, guðs son! Endurlífgaðir að hjá þér, Eilífrar gleði njótum vér. Sú eptir-þreyða sæla' og hnoss, Sífelt upplífgar hvern af oss, Þegar aðkémur þraut og kross.

4. Til himins fórst á undan oss, Eptir útstaðinn deyð á kross, Eins munum eptir ending kífs, Endurvakna til betra lífs, Í þínu ríki' øðlast þá, Æru og dýrð þér sjálfum hjá; Hvað þá viðjafnast huggun má?

5. Á þig trúum og vonum vær, Oss veika styrk þú, Jesú kær! Þér svo að aldrei føllum frá, Freistingar þó oss leiti á. Þú heyrir æ vort harma kvein, Hjálpar og græðir andar mein; Sú er vor líkn og sælan ein.

---

## III. Sannur kristinndómur.

---

### No. 335. (5).

Lagið: Sá frjáls við løgmál fæddur er.

Allt gott kémur frá einum þér, Alríkur manna faðir! Af þér hins besta væntum vér, Í von loks deyjum glaðir.

2. Helgist þér æ vort hjarta' og mál, Svo høtum rædu ljóta, Visdómsfull orð þin vora sál Veki til yfirbóta.

3. Andar gagn vort og annara med, Orð-rædur vorar stodi; Polid og hógvært géf oss géd, Glæpa svo firrist vodi.

4. Herra! þegar að þúngan kross, Þú vilt oss bera láta, Vist hann ad gódu verdur oss, Von sú oss gjøri káta.

5. Ef ad trúlyndir elskum þig, Andar mein kunna ei grauda; Vodi og neyd þó sýni sig, Senda munt nád þins anda.

6. Hvad sem oss mætir heims um byggd, Hug-gladir vér því tokum; Mýk oss gjørvalla mædu' og hrygd, Mæddir þá til þin kvøkum.

7. Verdi oss, fadir! vild þin á, Vantrú og efa forda, Óþolinmædi' oss flýi frá, Fyrir krapt þinna orda.

8. Samvitsku ró og sálar frid, Sælum géf oss ad halda, Einnig medbrædur vora vid Varast tvídrægni kalda.

9. Svo sem ad fjøldann synda þrátt Sjálfur oss fyrirgéfur, Eins géf framvegis idkum sátt Vid alla, sem skyldan krefur.

10. Andlegð ef fellur oss í skaut, Elsku-ríkt veit oss sinni, Að aumra léttum undir þraut, Eptir tilætlun þinni.

11. Ef fáum neyð og örbyrgð reynt, Eptir ráðstöfun þinni, Trú og þolgæði ljóst og leynt, Lát oss votta hvert sinni.

12. Athafnir vorar allar hér, Ætíð géf oss að vanda; Svo iðjum það, sem þókknast þér, Þinn send oss styrk til handa.

13. Hóf og iðju, sem hentar best, Hreinskilni' og dygðir allar, Oss kristnum géf að iðka mest, Uns dauðinn héðan kallar.

14. Lát oss svo, drottinn! lifað fá, Lastvara meðan þreyjum, Að sæla vis þér sjálfum hjá Sé oss þá héðan deyjum.

## No. 336. (6)

Lagið: Kom skapari heilagi andi.

Þú, sem hið góða elskar eitt, Enn þótt að veikum finnist hjá! Án þín eg megna ekki neitt, Allur minn kraptur þér er frá.

2. Breiskleik minn, drottinn! þekkir þú, Þín náð og styrkur efli mig, Á þínum kærleik kroptug trú, Kénna skal mér að elska þig.

3. Lát elsku þá minn hnegja hug, Að helga

líf mitt einum þér; Þín línkind æ mér léni dug, Lastvörum hegda mér, sem ber.

4. Géf þú mér skyn, ad dygd og dád, Dýrmætast hnoss í verold er, Ad sá, sem vandar allt sitt rád, Öruggur sérhvern mótgáng ber.

5. Ad fullgjörd dygd ei finnast kann, Föstum grundvelli stofnud á, Nema skír trú á skaparann, Skíni gudrækni sinni hjá.

6. Þú sem einn verkar veikum í, Ad vilja' og gjöra þad, sem ber; Styrk þú minn veika þróttinn, því, Frá þér minn allur kraptur er.

## No. 337. (7).

Lagid: Hver sem ljúfan gud lætur ráda.

Eilífi gud vor allra fadir! Einn ertú gódur, mikill, vís, Af undrum þinnar gædsku gladir, Gjöldum vér þér af hjarta prís; Þig ad dýrka mjög inndælt er, Um gædsku þína sýngjum vér.

2. Hver, sem ástgjafir þínar þekkir, Og þær rétt virda skyn á ber, Því skyldi hann þig elska ekki, Af elsku leiddur hlýdnast þér, Á gædsku þinni efalaust Æ grunda sína von og traust!

3. Ad Jesúm Krist, þinn son, oss sendir, Sérlega krefur þokk af oss, Hann þig, sem fødur, þekkja kéundi, Poldi vor vegna deyd á kross, Lærdómi bædi' og lifnadi' med, Ljós og farsæld útbreida réd.

4. Fyrst gud oss þannig elskar alla, Og eftir heillir sérhvers manns, Látum oss, bræd=ur! léttbært falla, Ad líkjast dæmi skaparans, Astsemi, dug og elsku med Astundum dygd og frómlyndt géd.

5. Kærleiks gud! oss sem kallad hefur, Krists ríkis til af þinni nád, Og øllum jafn=an gott allt géfur, Æ géf oss bædi vilja' og dád, Ad lífs til enda þjónum þér, Sem þín=um børnum verdugt er.

## No. 338. (8).

Lagid: Allt eins og blómstrid eina.

Hjálpa mér, herra blídi! Af hjarta gédjast þér, Eg svo gégn øllu strídi, Ord þitt sem bannar mér; Verk rádvønd æ ad idja, Ad=stoda virdstú mig, Med þeim svo ber tilbidja, Og bestan dýrka þig.

2. Géf, fadir! krapt eg kunni Kéfja girnd vonda' í mér, Rádvendni æ svo unni Og

finni nád hjá þér! Afvega lát ei leida Lost mig, né glæpa her, Ei spott né ótta neyda, Otrúr ad reynast þér.

3. Bod þin mér blessud visi, Braut rétta lifsins á, Hana mig feta fýsi, Farsæld eilifri ná; Styrk mig ad vilja vinna Verkin skyldu med trú, Og ædsta umbun finna, Er dygdum heitir þú.

4. Géf þú mér gódfúst hjarta, Gagnast öllum sem best, Annka þann kvöl um kvartar, Kætast samheillum mést; Ljúfum svo Jesú líkist, Lund kærleiksfullri med, Farsæld þins fridar ríkis, Fæ eg þá gladur sjed.

5. Géf ad eg rétt igrundi, Gódur ad ert og vis, Andyna min allar stundir Af þér ad gjörvöll rís. Þó sorg umhverfis hljómi, Hardar ef raunir þjá, I lifi, deyd og dómi, Drottinn! þig treysti' eg á.

## No. 339. (9).

Lagid: Kom skapari heilagi andi.

Drottinn! ástunda dygdir mér Daglega géf og bodord þín; Þú til ens góda þróttinn ljer, Þad veri besta huggun min!

2. Viki eg þinum vegum frá, Virdst þú i

náð að venda mér; Fyrirgéf breiskum, faðir! þá, Framvegis géf eg hlýðnist þér.

3. Ást þín föðurleg ætíð mig Uppörfa skal að stunda dáð; Vongóður kém eg þá fyrir þig, Þegar eg allt mitt vanda ráð.

4. Því ef eg dygða þræði stig, Þolgóður freisting yfirvinn; Góð meðvitund þá gleður mig, Guð! hún er sælu pantur minn.

## No. 340. (10).

Lagið: Adams barn! synd þín svo var stór.

O herra guð! þér heiður ber, Með hjartans gleði og lotning vér, Til þín nú þánka rennum, Dásamlegur í öllu ert, Allt hefur mjög vel til vor gért, Þakklátir það meðkénnum, Æ! lof, tilbeiðsla, ást og dýrð, Eilífi faðir! sé þér skýrð, Föður-náð fyrir þína, Sem einka reyndist verndin vor, Velferðar til hvert greiddi spor, Því ber oss þökk auðsýna.

2. Fyrir vort lífið þökk sé þér, Þín lofsverð náðargjöf sem er, Og það af miskun þinni, Heldur því við og hjúkrar að, Herra! en einkum fyrir það, Ber oss með bljúgu sinni, Þér þakka blessað þitt hjálpráð, Að þú hefur af föður-náð, Kristna menn þar til

kallað, Þig réttan föður þekkja vorn, Þín verða farsæl óska-börn, Nú og um eilífð alla.

3. O! hvílík huggun er oss það, Eiga þvílíkan föður að, Voldugan, vísan, góðan! Fáfróðir, breiskir, veikir vér, Vinna fátt skynjum, sem oss ber, Má oss því margt ofbjóða; Svo er og varið vorum hag, Að víst er fjörtjón nótt sem dag, Samt þurfum síst að kvíða, Ef — eins og hlýðnum börnum ber — Með breytni góðri stundum vér, Að þóknast þér og hlýða.

4. O faðir! láttu elsku þá, Sem öllum heimi virðist tjá, Upphvatning æ oss vera, Hreinskilni stunda hjartans mest, Og hegðun alla vanda best, Í þinni augsýn, herra! Að vér framgaungum ætíð hér, Eins og ráðvöndum kristnum ber, Og stundum mest sem meigum Þinni líking og þóknun ná, Þúsundfold náðar gæði þá, Vís vér í vonum eigum.

## IV. Trúrækni.

### No. 341. (11).

Lagið: Allir guðs þjónar athugið.

Heilagur faðir himnum á! Höfundur trúar-

innar, Pitt voldugt orð oss vísar á Veg sáluhjálparinnar, Lát oss trú rétta rækja hér, J ríki þinu svo að vér Pig sælir fáum finna.

2. Vertú, Jesú! vort lífsins ljós, Leið oss á veginn sanna, Unaðsemd vor og æðsta hrós, Æ sért, hjálparinn manna! Sá traustið á þig setur fast, Síst mun um eilífð fortapast, Hreppir sæld himin=ranna.

3. Vor trú sé byggð, sem vera ber, Vís-dóms á orðum þinum, Til enda lífsins allir vér, Avort verðugan sýnum; En nær vér rösum, herra! hér, Hjálp oss að ekki föllum vér, Né síðar sælu týnum.

4. Brákaðan sundur brjót ei reir, Blis trúar endurnærðu, Ydrandi sálna andvorp heyr, Andans þeim huggun færðu; Géf að þér aldrei föllum frá, Freisting er sækir megn oss á, Send þú líkn hjarta særðu.

5. O drottinn! sem að oss í hjá, Upp-byrjað trúna hefur, Efl hana svo að öðlumst þá Oss dauði, grøf umvefur, Endalok trúar, eilíft líf, Hvar, eptir heimsins mæðu' og kíf, Fagnaðar gnótt þú géfur.

## No. 342. (12).

Lagid: Hver sem ljúfan gud lætur ráda.

Þin sjást, ó guð! um verold víða, Visdóms, almættis, gæðsku spor, Jørð, himinn, árin óðt sem líða, Allt hrópar: mikill guð er vor! Hverful umbreyting innir bert: Óbreytanlegur guð að sért.

2. Gjørvöll náttúran þannig þylur Þér dýrðar lofsaung ósjálfráð, Min sála gædd með skynsemd skilur, Þitt skipar öllu visdóms ráð, Og með trú, sem þinn andi lér, Upp til þín, drottinn! lyptir sér.

3. Hvað er eg þess, að þori' eg senda Til þín, alvaldi! huga minn, Þú, sem ert, verður, varst án enda, Vera heilög og fullkomin? Þinn helgur andi hjarta í Hreinskilnu býr, eg treysti því.

4. Ó! hvað þú mönnum öllum hefur Auðsýnt föðurleg kærleiks hót, Með anda þínum oss þú gefur Athvarf til þín af hjartans rót. Það sonar traust vér feingum fyrst Fyrir þinn son, vorn Jesúm Krist.

5. Ó! hvað veikan það hressir huga, Að hefja kløkka sál til þín; Ekkert mótlæti mig kann buga, Meðan eg veit þú gætir mín;

Allt skápað birtir almátt þinn, Allstaðar eg þinn kærleik finn.

6. Nú sje eg gløggt þin guddóms merki, Gædsku, almætti, visdóm þinn; Hvort eg er einn, i værd eða verki, Veit eg að þú ert faðir minn. Faðir! i þina føðurhønd Fel eg ørnggur lif og ønd.

7. Það er sú trú, sem hér i heimi Himininn opinn sýnir oss; Það traust, ó drottinn! géf eg geymi, Guðrækni með, sem besta hnoss! Við enda lifs min viss er trú, Við mér, sem faðir, tekur þú.

---

## V. Elska og traust til guðs.

---

### No. 343. (13).

Lagið: Sólin upprunnin er.

Hvað eru vinir, vøld, Vit, fjør og hreysti? Hvað lifsins heilla fjøld? Hann þeim litt treysti, Vel sem að veit: Veifast allt burt sem reykur, Mótlætis mirk við el; Mynd skugga' eg horfna tel, Pá ljós um leikur.

2. Hvi treystum veikir vér, Volt á heims gæði? Elis stundlegt ekkért er Anægju sæði,

Okomins lífs Unaðar blóm sem géfur, Fyrst það hér böl opt býr, Í beiskju lífi snýr, Gröf yndi grefur.

3. Vor, sem hér æfast á Í reynslu standi, Skilinn lífs skóla frá Skynsamur andi Fyrir víst veit, Valt er gjörvalt í heimi, En æðri öruggt hnoss Ánægju lífs að oss Guð mildur geymir.

4. Sannfæring sífeld mann Sú á skal minna, Lífs yndi hér að hann Hvikult mun finna; Honum að er Hér ætluð stundar vera, Hann því, nær sorg hér sá Samferðast gleði, má Rór báðar bera.

5. O drottinn! einum þér, Óhult eg treysti; Géf aldrei grandi mér Glis heims né freisti; Brögð véla vond Velferð ei raski minni; Legg mér æ líkn í neyð, Létt hrygð, að sæll við deyð Eg fögnuð finni.

## No. 344. (14).

Lagið: Herra! þér skal heiður og lotning greiða.

Guð, sem allri Gæfu ræður minni, Géf eg ætíð Treysti forsjá þinni; Vilji þinn æ Veri minn, og Veit hvert sinni Unun í því finni.

2. Allt þín speki, Elska, máttur leiðir, Öllum miskun Sképnum þínum greiðir; Hví skal klaga Hót um daga? Herrann lagar Gæfu lífs um leiðir.

3. Mitt frá eilífð Skapað hlutfall hefur, Hvað sem býður Þú, mig friði' umvefur; Lán og mæðu Matst þú bæði, Mér hjálpræði Guð í öllu géfur.

4. Líki þér svo, Lát mér ekkért granda, Legg ánægju Daga mér til handa; En ef vinna Velferð minni Vjel, eg finni Hjá þér huggun anda.

5. Þín náð bauð oss Jarðar gleðji gæði, Gæðskan allteins Skóp oss lífs vankvæði; Sjálfs ef eigi Sök mig beigir, Sáttur þreji' eg; Þú ljer þolinmæði.

6. Missi' eg heill, sem Mildin þín gaf blíða, Mótgáng þú ef Vilt eg skuli líða; Þá eg beiði, úr Böli neyðar, Best munt greiða, Bót ei láta bíða.

7. Mun brádt þrotið Máské fjörið æða; Mildi guð, þitt Verði boð! Því hæða, Sé víst valin, Vis mér talin — Sú von er alin — Hví má hel mig hræða?

## No. 345. (15).

Lagið: O drottinn alsvaldandi!

Einn dagur öðrum tjáir, Allir megum vér sanna það, Hver sem þess gætinn gáir, Og gjörvallri hyggur sköpun að, Mikill er Og mildur drottinn, Mönnum tjer Gæðsku vottinn, Gæða hver Gnótt er þaðan sprottin.

2. Umbreytist allt í heimi, Óbreytanlegur hann þó er, Í öllu lífs andstreymi Ætíð honum því treysta ber. Náðargnótt Næga géfur, Nýjan þrótt Veitt oss hefur, Dag og nótt Drottinn náð umvefur.

3. Honum af hjarta treystum, Hann er vor einka líkn í neyð, Oss sinum endurleystum, Eins mun hann verða líf í deyð, Síst oss má Sækja mæða, Sældir þá Dýrðar hæða, Honum hjá, Hljótum æðstu gæða.

4. Framvegis, faðir blíði! Fulltingi þinn treystum mest, Í lukku' og ángurs stríði, Oss þin miskunin líkni best; Um ekkért þá Annað hirðum, Enn þig sjá, Mest það virðum, Og himnum á Hjá þér búa' í kyrrðum.

5. Trúlyndum heitið hefur Hjálpráð oss mönnum öllum tjá, Farsældar gnóttir géfur, Guð vor! þitt orð ei bregðast má. Sælu þú,

Þinum géldur Þjóni', er trú Stødugt héld-ur; Hugsan sú Hugguu æðstu veldur.

## No. 346. (16).

Lagið: Hver sem ljúfan guð lætur ráða.

Trúfasti guð! eg til þín kalla, Titrandi birtist fyrir þér, Og bið um miskun æfi alla, Aldrei að gleyma viljir mér; Eg veit þú heyrir andvorp mín, Og sendir hjálp af gæðsku þín.

2. Øll min þegjandi andvorp þekkir, Og tár mín sjer þú leyndum í, Mér hjálpar best nær aðrir ekki, Og hardt umspennir neydin því; Þegar mér veiklast von þú sjer, Virðst þá huggun að senda mér.

3. Þó að eg eigi þekki tíðum Þina alvísu stjórn á mér, Athvarfs samt leita' í eymd-um stríðum Einúngis skal, minn guð! hjá þér; Veikur litt standast við eg má, Vel lát mig stríða' og sigur fá.

4. Á þér trúnaðar-traustið festa, Tryggvi leiðtogi! veittu mér, Hvort sældin eða sorgin mesta Frá sjálfum þér að høndum ber. Dag-far mitt prýða dygðum géf, Drottinn! á meðan hér eg tef.

5. Fagnandi þá eg fús medkenni, Födurást þína sældum í; Eins þó mótlæti mig umspenni Mun eg rólegur taka því; Géf aldrei skiljist eg vid þig, Æ, gódi fadir! bænheyr mig.

## No. 347. (17).

Lagid: Fadir vor sem á himnum ert.

Á gud eg treysti einan þig! Ástríkur jafnan leidir mig; Eg gledst af födur umsjón þín, Eg veit í nád þú sjer til mín, Önd minni rósemd eykur þad, Angist og neyd þá þreyngir ad.

2. Hver himna drottinn ástvin á, Okvídinn lífs veg geingur sá; Ei sturlast hann þó eymdin hörd, Ad honum kreppi hér á jörd; Senn veit hann reynslan úti er, Endast med henni neydin hver.

3. Lídsemd veit mér, minn gódi gud! Ad geymi' og stundi vel þín bod; Ad setja megi trú og traust Til þín hug-gladur efalaust, Uns sælan himna fæ eg frid, Og fagna þína miskun vid.

4. Forsjónar vegi fæ eg þá, Fadir! þína med undrun sjá; Þú andar gagn dýrt mattir mitt, Miklist um aldir nafnid þitt! Því

vis og góður æ þú ert, Athvarfið vort í raunum sért.

## No. 348. (18).

Lagið: Um dauðann gef þú drottinn! mér.

Allt hvað tilveru af þér hlaut, Alheims verndarinn góði! Örlætis þíns og nægta naut Af náðar dýrstum sjóði; Oss mönnunum þó allra mest Auglýsir gæðsku merkin flest; Því er skyldt þökk hver bjóði.

2. Vort þú oss daglegt veitir brauð, Vísdóms og gæðsku faðir! Aðstoðar best í allri nauð, Á þig vér treystum glaðir, Og þó hjálp frestir enn um hríð, Á þér gèðfeldri munum tíð Frelsinu fagna hraðir.

3. Mest er þó jafnan miskun þín, Menn þegar neyðin særir, Huggun í sorgum, Hjálp í pín, Harmþrúngna gleði nærir; Þegar aðkémur kaldur deyð, Kvíða þurfum vér eingri neyð, Frelsi og líf hann færir.

4. Í lífi, deyð og dómsins tíð, Drottinn! oss náð þín gleður; Þér sé um aldir þökkin blíð, Þér mannkyn lofgjörð kveður, Að þegar hérvist endast á, Í himna dýrð þér sjálfum hjá Sælu eilífri seður.

## No. 349. (19).

Lagid: Heimili vort og húsin med.

Gud þig ad elska gódi minn! Gagn er mitt bædi og skylda, Aud heims mót því og upphefd sinn Alls ekkért mega gylda; Sakmarleg elskan sjálfur ert, Sérhver þin skipan vottar bert Miskunar géd þitt milda.

2. En girndir tídum ginna mig, Og gjøra skynsemd blinda, Veraldar glis á villu-stig Vill tæla mig, og binda Hégómann vid, en hversu þá, Heilagi gud! eg lita má Svivirdu minna synda?

3. Orvænta skal eg ekki þó, En þinnar nádar bida, Flýa til hans, sem frid mér bjó, Fyrir mig deyd nam lida, Hann þá fullvissu veitti mér, Ad væri' eg dýrmætur fyrir þér, Jesús lausnarinn lýda.

4. Eg veit ad komstú, Jesú minn! A jørd ad drottins rádi, Matur og drykkur þad var þinn, Ad þins fødurs vilja gádir; Fús deydir krossinn festur á, Fæ eg af þessu gladur sjá, Ad heitt oss elska nádir.

5. Elsku guds finn eg allteins hér, Ad son sinn gaf oss kæra, Elsku til hans því ollum ber Til enda lifs ad næra. Ad eilifu

skal eg elska hann, Utvøldum með í dýrðar rann; Honum ber eilíf æra.

## VI. Náðvendni.

### No. 350. (20).

Lagið: O faðir himneski' og eilífi guð.

Tíð og líf gégnum eg fagnandi fer; Frjáls skunda vegferð sem ætluð er mér; Skérðir ei elli né áratal þar Auðnu, sem hjartanu skeinkt var.

2. Meðvitund rósøm að réttvísi, dygð, Rækt þar æ finna og velja sér byggð; Frið minn og eilífan føgnuð ei ná Forløg að trufla, né tíð má.

3. Þú, sæla rósemd í minni sál! mér, Morgna þá sól roðar, heilsa blídt fer, Erfiðið blessar heill, ánægju með, Og svæfir þreyttan í nátt beð.

4. Himnanna guðs til því hugur minn rís, Heit vinnur einlæg við bænir og prís; Gæðskunnar boðorð að geyma, mér lið Guð bið eg senda og tilbið.

5. Sjái eg mæðunnar son líða neyð, Sorg-

unum hlaðinn og þjáðan, en greið Hjálp min hann frelsar, þá inndæl hans er, Auga og hjarta glóð þökk mér.

6. O! hversu inndæl minn ánægja barm Inntekur, hugsi' eg: nú sefa' eg hans harm! Aður enn hjálpa' og eptir mig finn, Eins og frá sjálfum mér numinn.

7. Huggar það mig við þá mæðu eg sje, Mildastur faðir að lætur i tje, Skepnum hvað hagar, hans vísdómur veit, Vel öllu skipa um hvern reit.

8. Friðargjöf himnesk, er fyllir mitt brjóst: Að fús er eg skyldum leynt gégna sem ljóst, Boðar mér sæl að á baki við gröf, Búin sé helgnðum lífgjöf.

9. Traust það og gjörvöll á guði von fest, Góðri með samvitsku' er styttan min best. Skylda! glaðt samvitsku boðorð! þú ber, Bjart ljósið efans i nótt mér.

10. Eg þángað fylgi, sem áviſar mér, Eingar því festar mér halda frá þér, Eingri mig nogun skér umliðin tíð, Eingan af framtíð eg geig bíð.

11. Réttan þú leiðir mig ráðvendnis stig, Rans yfir hégómlegt dáranna' og mig, Til

manna fremdar og faguaðar ber, Fyrir því heilsa' eg og lýt þér.

12. Mig þvingun leysir þú mannlegri frá, Mig huggar sakleysi lífsins stig á; Mig styrkir hugprýði framgáng að fá, Fullkominn tignara lífs ná.

## No. 351. (21).

Lagið: Faðir vor, sem á himnum ert.

Herra! sem boðað hefur mér, Heilagt líferni' að geðjist þér; Mitt líf þér helga hjálpa þú, Helgunar krapti mig útbú, Svo að ráðvendni ljóst og leynt, Lýsi jafnan mitt dagfar hreint.

2. Ef þú mér, drottinn! leggur lið, Löst og ódygð að skiljast við, Eg mun ástunda eins og ber, Allt sem eg veit að líkar þér, Og trúr uns þrýtur æfin mín, Með alúð rækja boðorð þín.

3. Sá dygða feta feril ann, Farsældar leið æ geingur hann; Að síður skeiki, eg því skal Aðgætinn vanda ráð og tal; Vor guð! leiðtogi vertú mér, Von-góður skal eg treysta þér.

4. Ólukka megnar eingin þá, Ánægju mér að ræna frá; Dauðann mun eg ei hræðast hót, Honum öruggur taka mót, Og hverju

sem ad höndum ber, Hjálp og nád þar til veittú mér!

---

## VII. Réttlæti. Gódsemd.

---

### No. 352. (22).

Lagid: Heimsins stýrir, forsjón fasta.

Géf oss, fadir! tvíllaust trúa, Tíd ad léntir fjør og stétt Oss á jord ad undirbúa Eilífd, heill og sælu rétt; Lærdóms skóli, líf ad er, Leid til himins gaungum hér; Þar réttlæti og gædsku gledur Gódan dygdar umbun medur.

2. Øll þín stjórnan hér í heimi, Hátign þinni lýsir bert; Eingu mild ad gædskan gleymi, Gud! réttlátur fadir sért. Þín réttvísi' og gædska gód Géfur bod og dæmid þjód, Góds og réttar øllum unna, Og sem best þér líkjast kunna.

3. Óss hvad kjósum ødrum veita Eins réttlátur Kristur baud; Af því vernda eigum leita Annars sæmdir, rétt og aud; Hefja' upp idu, en heidra dygd, Hata øfund, róg og lygd; Hann er eflir sérhvers sóma, Sjálfur ødlast væga dóma.

4. Dóma ber oss velja væga, Virða bræður hér á storð; Góðum heit um gæfu næga Gaf og miskun drottins orð. Sama foður eigum að; Allir að sælu kèppum stað; Allir marga bresti berum; Bágt er að dylja: veikir erum.

5. Réttvís guð! lát rétt á jørðu Réttan leiða menn á stig; Ei með bræðra ofur hørðu Áfelli þeir dæmi sig; Allir þurfum vægðar vér, Veit oss rétt, sem hverjum ber, Virða hér, að sæld og sómi Sé oss vís að efstum dómi.

---

## VIII. Þolinmæði.

---

### No. 353. (23).

Lagið: Hver sem ljúfan guð lætur ráða.

Ef vér í þúngar raunir rotum, Ráðstofun drottins tökum vel, Og þolinmæði aldrei glotum; Álitum vott um foður-þel, Að mildur typtar, oss því ann, Og til betrunar leiðir hann.

2. Þó mæðu finnum þúngt að bera, Pjáning ógæfu teljum vott, Hún til betrunar víst

má vera, Oss valid medal hent og gott. Pad traust, ef adber þraut og kross, J þolinmædi styrkir oss.

3. Oþolinmædi ollir meiri Armædu, skapar møgl og kvein, Þeim er vid reynslu illa eirir, Afmældan skérf og sorga mein; En þolinmódum af þeim ris Ædri fullkonnan, huggun vís.

4. Samvitsku þegar geymum góda, Gérsemi dýrást jørdu á, Mótlæti ekkért mun ofbjóda, Menn best rósamir finna þá, J ordu náttúru allt ad fer, Edli sambodid hennar er.

5. Fullvissan, vel um stund ef stridum, Strar eilifd brosi gløð oss vid, Ollum burtfeykir áugurs hridum, Anægju blessar værd og frid. Sem revk hún heimsins reiknar glis, Rauna skammvinnan þúnga sis.

6. Oss Jesús kénndi ljúfur lída, Lifs og deyjandi krossi á, Og vilja fødurs besta bida, Byljum uns létti sorga frá; Þeim, sem med honum hugrór leid, Heidur vid sigur eptirbeid.

7. Hvad eru fánýt heimsins gædi? Hvad stundleg þjáning, bøl og hrygd? Allt sis ad reikna eru bædi, Mót ædri dýrd i sællra

byggð; Þess vegna rór eg þygg og ber Það faðir ástkær velur mér.

## No. 354. (24).

Lagið: Gæðsku guðs vér prísum.

Vor guð á himna hæðum, Heilagi faðir kær! Í hverskyns hrygð og mæðum, Hjálp þína reynum vær, Um vora æfitíð, Ef þig elskum af hjarta, Á oss mun trúfost skarta, Guð vor! þín gæðskan blíð.

2. Af elsku oss til bótar, Agar þú, faðir! oss, Svo vorumst lesti ljóta, Leggur á raun og kross, Hjálp veitir hirting með; Því er skyldt þessu tækjum, Með þökk og jafnan rækjum Þér hlýðið þolugt géð.

3. Ef lætur oss tilfalla Andstreymi, sorg og neyð, Þína send aðstoð alla, Æfinnar skunda leið, Trúrækni trausti með, Svo að þolgóðir þreyjum, Þar til burt héðan deyjum, Þitt prísum gæðsku géð.

4. Síst munu heimsins hrygðir, Hér mega jafnast við, Eilífar yndis bygðir, Og æðstan dýrðar frið, Sem oss þinn sonur bjó, Vilj- ugur þá hann þoldi Pjáning' á sálu og holdi, Og kvalinn á krossi dó.

5. Hans þolgéðs dýra dæmið, Dygð og lífernið hreint, Oss fremur öllu sæmi, Og hvetji ljóst og leynt, Feta hans fótstig í; Vilji þinn á oss verði, Vor guð! þó neyð að herði, Og mótgángs skyggi ský.

6. Ef þolinmóðir þyggjum Það, sem að höndum ber, Og heilla einum byggjum Örugga von á þér, Sízt mun oss bregðast sú, Veit oss því vel að stríða, Og vilja þínum hlýða, Með þolugri þreyja trú.

---

## IX. Hreinlyndi.

---

### No. 355. (25).

Lagið: Túnga mín af hjarta hljóði.

Guð oss hér í sambúð setti, Svo vér gleðj- umst bræðrum með, Undir hver með öðrum létti, Efli lán og hressi géð; Ástúð geymi Hér í heymi, Hreinlyndt þelið öllum tjeð.

2. Líkams sama limir erum, Lands innbúa samfélags; Því til heilla hraðir verum; Hver svo annars leiti hags, Ei með flærðum Eyð- um værðum; Endurgjaldsins minnumst dags.

3. Þeim í skøpum veit sér vera Beitta manna tignar stétt, Illa sómir innra bera Ulfa skap og refa prett; Kjassi ríkur, Kjænn er svikur, Krists svikara líkist rétt.

4. Hver einn því af hjarta mæli, Hrein-an saunleik bræður við; Ei með flærð eður ofund kæli; Elski dygð, en stundi frið; Oðr-um sóma, `Unni' og blóma, Eigin sæmda rati mið.

5. Hreinlyndt, drottinn! hjá oss skapa Hjarta', og minna virðstú á Manna varast virðing tapa, Vélum af sem leiða má. Sælir einir Hjarta hreinir, Heilagt fá þitt auglit sjá.

---

## X. Blíðlyndi.

---

### No. 356. (26).

Lagið: Hvar mundi vera hjartað mitt.

Öll er þín ræða elska' og náð, Ástríki guð! til mín, Býður hjálpræðis bestu ráð Oss blessuð gæðskan þín, Hýrust blíða um hvert eitt láð Af hátign þinni skín, Illa því sómir beiskjan bráð, Bræðrum á milli sín.

2. Lát oss ástunda ad líkjast þér, Ljúfmennska sé oss kær, Svo alúd, blídu og högværd hér, Hver ødrum tjáum vær; Ófugleg svør og ordin hver Umgeingni þokist fjær, En hinn í þína ætt sig sver, Øllum sem gódsemd ljær.

3. Frelsarans dygda dæmi á Daglega festum sjón, Øllum sem gjørdi elsku tjá, Eingum baud stygdar-tón, Aldrei hóglyndis blídu brá, Þó brixla heyrdi són, Óveitta lét sér aldrei frá Aumingjans fara bón.

4. Þvílíkt blídlyndis dæmi dýrt, Drottinn Jesú! eg bid: Láttu þad á mér skína skírt, Skaplyndis bæta sid; Vinsemd æ gjøri vidmót hýrt, Velunnan sérhvern vid, Svo høndlad fáum hnoss órírt Hjá þér í dýrdar frid.

## No. 357. (27).

Lagid: Einn herra eg best ætti.

O Jesú! oss sem hefur Afrekad lausn og grid, Þín gudleg nád oss géfur Gledi og andar frid, Sjálfan þig lítillægdir, Og leidst á krossi deyd, Vid fødurinn oss fridþægdir, Fær því ei grandad neyd.

2. Audsýna øllum nádir Ástríki og hóg-

vært géð, Hlýðinn guðs vilja gádir, Gæðsku' og blídlyndi með, Fjandmönnum fridar beiddir Fodur þinn krossi á, Og vina eymd úrgreiddir, A þegar nokkrum lá.

3. Blídlyndis dæmið dýra, Deyjandi' og lífs er þú Auðsýndir, oss lát stýra; Astundan vor skal sú: Þinn dygda feril feta, Framast sem kunnum vér, Veit oss það vilja og géta, Vor guð! að líki þér.

---

## XI. Hófsemi.

---

### No. 358. (28).

Lagið: Hver sem ljúfan guð lætur ráða.

Um daglegt brauð þú drottinn biður, Dugir þér ei, þó veitist nóg, Olla því mun þinn óhófs siður, Eyðir meiru enn vinnur plóg; Sparseminni sá aldrei ann, Asaka má ei gjafarann.

2. Láttú þér nægja það sem þyggur, Þegið stunda þú nota rétt; Mun þá veitast hvað mest áliggur, Meðal til geingis hóf er sett;

En óhóf sendir örbyrgd þér, Opt þinni velferd skadvænt er.

3. Oss fædi' og klædi látum lynda, Þó leggjum hug á sælli kjör; Audlegd opt dróg til óhófs synda, En vid sællifi spilltist fjör; Gjörum því mun á girnd og þörf, Geymd er oss heill vid hóf og storf.

4. Ofþýngja hjörtun géf ei gjörum, Gódi fadir! um lífsins stund Ohófi med, en framar forum Forsjállega med þegid pund; Vellyst syndugri vísum frá, Verdugri gledi lát oss ná.

---

## XII. Ofund.

---

### No. 359. (29).

Lagid: Guds son kallar, komid til min.

Gud, sem fadir oss gæfu ann, Gáfum, sæmd, láni skiptir hann, Eins og best hverjum hagar; Annara heill hver yfir sá Ofsjónum, vesæll heita má, Eitrud þann öfund nagar.

2. Vid sig hann adra samanber, I sæmd og verdúng, telur sér Ojöfnud einatt veittan; Ásakar visdóms ædstan hátt, Auga ráng-

snúum litur þrátt, Sæmd, blessun bróður skreyttan.

3. Ofunda dýr eins mundu mann, Morg þessu likt, en eingla hann, Allt tignar æðri beiðast; Endanleg vera, sem ei sá Sinn gæfu skamt best henta, má Af øfund illa leiðast.

4. Brennanda likt við eld því er Ofund, þá menn hún kvelja fer, Anægju á burt flæmir; En villi-siðum býður byggð, Ur brjósti vísar ærn' og dygð, Og manna tign ósæmir.

5. Sin egin svipa ofund er, Aðra hvað tignar, gleðja ber, Hún æ með harmi litur; Af heipt því nagast, hana skér Hvað gott og loflegt orð af ser, En rósemd hvergi hlýtur.

6. Ogæfu fagna olla kann Þeim, yfirburði hvers hún sann, Frá heillum eingla felldi; Yfir oss synd og deyð hún dró, Dygðugum Jesú píslir bjó, Saklausan dauða seldi.

7. Hver fær útmálað illt það allt, Ofund sem verkar þúsundfaldt, Oðrum til bols og baga? Oróa vekur, eymd og strið, Anægju hrekur burt frá lýð, Og lífsins eitrar daga.

8. O! hversu manna er hún stétt, Akvorð-un, skyldu gagnstæð rétt, Og því af øðrum kjósum! Hvort mun þá vitska, heiður, dygð,

Í hnjóði falin, ósund, lygð, Af hverju oss þó hrósum?

9. Ó! hversu Jesú er hún ást Ólík, hvers dæmið best mun fást, Gott vann og meinin græddi; Hann bræðrum unna, hjálpa' í nauð, Hógværð óvinum votta bauð; Svo breytti, sem hann fræddi.

10. Ó! hversu drottins er hún ást Ólík, sem hvergi sképnum brást, Hún allan heiminn gleður; Ránglátum upp hans rennur sól, Réttlátum líkt, og sérhvert ból Regn frjóf-samt gæðum gleður!

11. Kénn oss, ó guð! þitt geyma vel, Gæðskuríkt boð, hreint bræðra þel Í ást og alúð sýna; Og manna virða æru' og stétt, Ósund fráfneyddum stunda rétt, Svo oðlumst þókknun þína.

---

## XIII. Jesú eptirbreytni.

---

### No. 360. (30).

Lagið: Hjartað, þánkar, hugur, sinni.

Góði Jesú! lát mig læra, Að líkjast þér, sem best eg má, Vegsemd mín það er og

æra, Adstod virdst mér breiskum tjá! Ef lokk-
ar synda lysting mig, Líta, Jesú! géf mér
þig, Dæmi þitt á dygd mig hvetji, Dýrstum
þér svo fylgt eg géti.

2. Þú, hvern dýrka andar ædstu, Ofan til vor komst á jord, Leidst þolgódur læging stærstu, Lemstur, sár og bondin hord; Allteins géf í audmýkt hér, Astundi' eg ad líkjast þér, Hvort lukku brest eda lán þú sendir, Ljúft sé mér af þinni hendi.

3. Elska heitust upp þig hvatti, Erindi framkvæma þitt, Eptirlæti mesta mattir, Ad mannkyn yrdi' af syndum kvitt; Unn mér kall mitt rækja rétt, Rádvondum í minni stétt! Géf mér þar af gledi hljóta, Ad gjora odrum mest til bóta.

4. Fyrir líf og ljós ad senda, Laun þú hrepptir spott og neyd, Trúr þó reyndist allt til enda, Er þú leidst hinu stránga deyd, Eins á krossi enn badst þú: Æ þeim fadir! forlát nú! Heimur illt fyrir gott þó gjaldi, Géf eg trú og sigri haldi.

5. Fodurs vild þig fúsu gédi, Fólst þá mæddi kvolin sterk, Hans á fund þú fórst med gledi, Fullkomnad vid lausnar verk; Hel-

strid þá ad höndum ber, Herra! géf eg likist þér, Svo ávört þinn ödlist þinnar, Ædstu gledi sálar minnar.

## No. 361. (31).

Lagid: Nú bid eg, gud! þú nádir mig.

Sæll er sá mann i heimi hér, Hylli drottins sem aflar sér, Elskar, tilbidur, heidrar hann, Herra sinn gud og skaparann, Grandvar ad sinni gáir stétt, Gagnsemd medbrædra stundar rétt; Lifsferli Jesú fylgir sá, Farsældar nýtur himnum á.

2. Sæll er sá hóffsemd heldur vid, Hegdun stillta og gódan sid; Þvíad allshátttar óhóf kann Andlegum heillum svipta mann; Gódfúst og blidt sá lyndislag I liferni vottar sérhvern dag, Rétta leid dygda heldur hann, Hógværdar-skeid, sem Jesús rann.

3. Trú og þolgædi' ad temja sér, Til ædri heilla vegur er; Oþolinmædi' og Oró því Eymdirnar fleiri steypir i. En sannleik elska og una vid, Unna hreinskilni' og dygda sid, Af Jesú lifi læra má, Ljós sé þad manna vegum á.

4. Kærleikans dygd sá ætid ann, Eptir

farsældar götu rann; Hræsni hvergi né ágirnd á, Né undirferli rasar sá; Eitri þúngaða ofund hann, Illgirni líka forðast kann; Að Jesú dæmi gjörir gott, Góðan mannelsku sýnir vott.

5. Astríki faðir! efl hjá mér Allar dygðir, sem líka þér; Lastanna stríða lokkun gégn, Léna mér nægan krapt og megn, Þann svo lífs feril feti' eg hér, Sem frelsarinn Jesús kénndi mér; Þá mun eg síðan finna' og fá Fullsælu þreiða himnum á.

## No. 362. (32).

Lagið: Kristi vér allir þökkum þér.

Lausnari! dæmið láttú þitt Leiða mig hverju sinni, Að laga gjörvallt lífið mitt Lífs breytni eptir þinni; Líferni þitt og lífsins orð Lýsi mér ætíð hér á storð, Svo réttan feril finni.

2. Sá þín liðþurfi leita vann, Líku fann og æðstu mildi, Óbænheyrðan létst aldrei þann, Andvarp hans heyra vildir, En hversu tíðum erum vér, Ólíkir, góði Jesú! þér, Að gjöra gott sem skyldi.

3. Föðurnum hlýðinn varstú vel, Vegsama

nafn hans gádir, Og hverjum manni hjarta-þel, Hógvært audsýna nádir; En hrokafullt vort hjarta er, A höndum oss nær lukkan ber, Vinir opt verda smádir.

4. Þú girntist födur þínum best, Þjónkun og hlýdni veita, Allt ad kross deyd, og öll-um mest, Elsku þú syndir heita; En vér þín blessud bodord tídt Brotid höfum og synd-um hlýdt, Forsómad frelsis leita.

5. Óvina grimmust íllska og slægd, Ei vakti reidi þína, Blídur fyrir þeim badst um vægd, Er breisk þig særdi pína, En hjá oss tídum upptendrast, Illgirni, reidi, hefnd og last, Menn þá oss mótgjörd sýna.

6. Þín dygda kénning klár og hrein, Krapt sinn anglýsti vída, Þitt heilagt líf í hverri grein Hjartans ástsemi blída; Eins géf oss vilja, afl og magn, Ad efla brædra sanna gagn, Og lifnadi lærdóm prýda.

7. Allir bidjum þig, ó Jesú! Adstod, oss milda senda, Dygd ad vardveita' og vora trú, Varfærnum lífs til enda; Vér í þín fót-spor setum þá, Fullsælum uns þér sjálfum hjá, Veitist ad lokum lenda.

## XIV. Utfarar-sálmur.

---

### No. 363. (33).

1.

Jam mæsta quiesce querela,
Lacrymas suspendite, matres!
Nullus sua pignora plangat,
Mors hæc reparatio vitæ est.

2.

Quidnam sibi saxa cavata?
Quid pulchra volunt monumenta?

### Sami sálmur á íslenzku.

1.

Öll harma-kvein hætti ad sinni,
Haldi náúngar tárunum inni!
Ei ber sofnadan ástvin ad gráta,
Lífs endurbót daudann má játa.

2.

Hví skrautbúna legstadi lítum?
Leidin á ristar minningar ítum?

